# Verkalýðsblaðið

1. tbl. 12. árg. | 7. febrúar 1983 | Verð kr. 20.00

# Verkalýðsblaðið hættir að koma út

## Kommúnistasamtökin ákveða að leggja blaðið niður f.o.m. 1. tbl. 1983

Sjá nánar bls. 2—6

# Erfidrykkja Verkalýðsblaðsins

Áskrifendum og velunnurum Verkalýðsblaðsins er boðið til samkomu með léttu sniði sunnudaginn 13. feb. næstkomandi kl. $15.^{00}$ í Sóknarsalnum við Freyjugötu.

Leikföng verða fyrir börnin á staðnum.

Þó svo að við köllum þetta erfidrykkju, verður einungis boðið upp á kaffi og með því og gosdrykki. Ætlunin er að rifja upp ýmislegt úr sögu marx-lenín-maóísku hreyfingarinnar og málgagna hennar, Verkalýðsblaðsins og Stéttabaráttunnar. Að sjálfsögðu verður einnig rætt um hvað taki nú við. Með góðri aðstoð gesta verða gamlir baráttusöngvar hafnir til vegs og virðingar.

Við vonum að margir sjái sér fært að koma og eiga saman þessa stund.

Aðstandendur Verkalýðsblaðsins

# Við semjum stefnumarkandi bók

**Enda þótt Verkalýðsblaðið hætti að koma reglulega út, heldur starfsemi Kommúnistasamtakanna áfram. Aðalverkefni samtakanna næstu mánuði verður umræða um almenna stjórnmálastefnu og jafnframt um stefnu í einstökum málum (t.d. húsnæðismálum, landbúnaðarmálum, skattamálum, menntamálum, æskulýðsmálum o.fl.). Niðurstöðurnar birtast síðar í bók sem við vonum að muni vekja athygli. Umræðan er að okkar mati mjög frjó, en tekur sinn tíma, enda flókin vandamál við að glíma og fátt við að styðjast.**

**Næsta skref verður að kynna og útbreiða bókina og efna til umræðu um inntak hennar. Með þessu viljum við stuðla að því að stjórnmálaafl verði til, stjórnmálafl er geti sameinað alþýðu til að koma á lýðræðislegu sósíalísku þjóðfélagi er leysi af hólmi hið spillta, kreppuhrjáða arðránskerfi sem við búum við nú.**

**Áskrifendum Verkalýðsblaðsins verður gefinn kostur á að eignast bók þessa á afsláttarverði.**

**Skrifstofa samtakanna á Frakkastíg 14 verður opin eitthvað framvegis á fimmtudögum kl. $17—18^{30}$. Þar gefst tækifæri til að ræða um stefnu og starf samtakanna við stjórnarmenn. Síminn er 29212. Gengið inn bakdyramegin.**

**Stjórnin**




















# Hvers vegna hættu svona margir?

Alvarlegasta áfall maóistahreyfingarinnar lýsir sér í því hversu margir félagar hafa hætt skipulögðu starfi. Starf flestra hefur lognast út af án pólitísks uppgjörs. Þessi tvístrun samtakanna hefur gengið undarlega friðsamlega fyrir sig.

Þetta er mat okkar, sem hættum ekki og er viðbúið að margir þeirra sem hættu verði á öðru máli. Það væri þá ekki seinna vænna að láta afstöðu sína koma fram.

Við vitum þó um skýringar nokkurra fyrrverandi félaga. Algengt var, að menn hættu af „persónulegum ástæðum", því að þeir þurftu að sinna barnauppeldi, námi, brauðstriti eða að maki var mjög andvígur pólitísku brölti þeirra. Menn misstu sem sagt áhugann á þátttöku í skipulögðu starfi marx-lenínista. En **hvers vegna?** Hvers vegna svona margir um líkt leyti (1978—1980) Það er mjög bagalegt að samtök okkar skuli ekki hafa brotið þetta mál til mergjar.

Sumarið '81 tjáðu 2 félagar, sem þá voru hættir þátttöku, sig í VB um það hvers vegna þeir veldu að gera annað. Báðir voru á því, að við hefðum lagt of mikla áherslu á nám í marxískum fræðum. Við erum alveg á öndverðri skoðun. Síðan þá hafa samtökin aukið áherslu á fræðilegt starf en **samtímis** barist gegn kreddufestu. Þeir mæltu með því að hella sér út í fagfélagsstarf með fólkinu og a.m.k. annar gerði það. Honum tókst alls ekki að hressa verkalýðshreyfinguna við, en hefur aflað reynsluþekkingar í ríkum mæli, sem þarf að fá fræðilega umfjöllun, eigi hún að koma að góðu gagni. Þessir félagar bentu á Einingu í Póllandi, sem þá var í blóma lífsins og annar taldi stjórnmálaflokka úrelta. Við teljum hins vegar sárvanta stjórnmálaafl með reynslu og fræðilega þekkingu til að greina hraðversnandi þjóðfélagsástand og breyta því. Það duga engin sárabindi til lengdar, það þarf uppskurð. Eining í Póllandi var því aðeins möguleg að skipuleg pólitísk andstöðuöfl með fræðilega mjög sterka menn innanborðs höfðu starfað nær samfellt í áratugi og búið fólk undir að veita fjöldahreyfingunni pólitíska leiðsögn. Hugmyndafræðileg forysta þessarar milljónahreyfingar hefur líklega aðeins talið örfáa tugi manna, a.m.k. í byrjun.

Fyrir nokkrum árum var leti, skortur á efndum og pólitísk uppgjöf félaga oft útskýrð sem afleiðing smáborgaralegrar stéttarstöðu eða stéttaruppruna. Það er alveg ljóst, að þeir sem hafa hætt hafa að jafnaði ekki haft hærri stéttarstöðu en þeir sem héldu áfram (t.d. hætti margt verkafólk) en það er erfiðara að meta stéttaruppruna. Við álítum þessa skýringu óverulega og að leita þurfi annarra orsaka.

Til að gera langa sögu stutta, skal nú reynt að telja upp helstu ástæður, sem við komum auga á:

**Of lítil fræðileg þekking** á eðli mannsins og samfélagi hans. Sumpart röng afstaða til þess hvað væri þekking, hvernig hún þroskast hjá hverjum og einum og hvernig hún verður til og þróast í samfélaginu. Of lítil áhersla á nám, leshringir um of í trúboðsstíl. Skrif félaga of lítið krufin og gagnrýnd.

**Kreddufesta** (nátengt hinu fyrrnefnda). Við misskildum marxismann, treystum öllu sem ákveðnir menn sögðu (aðallega frumkvöðlarnir 5) og stimpluðum mest allt lygi, sem ekki bar saman við þá. Grundvallaratriði voru lítt rædd, þau voru á hreinu. Okkur skorti gagnrýna og leitandi afstöðu. Ógagnrýnin eftiröpun eftir byltingarbaráttu í öðrum löndum, of lítið tillit tekið til menningarlegra og efnahagslegra sérkenna íslensks samfélags. Við vanmátum rannsóknarþátt marxismans, töldum hann (líkt og BSK gerir nú) samansafnaða reynslu verkalýðsstéttarinnar og okkar hlutverk væri fyrst og fremst að framkvæma.

**Trúarleg afstaða** (ein aðalorsök kreddufestunnar). Ógagnrýnin trú á málstaðinn, óljós markmið kommúnismans, á frumkvöðlana, forystu kínverska kommúnistaflokksins og lengi vel einnig þess albanska (líkt og BSK nú), á byltingaröflin í Víetnam og Kampútseu. Þetta voru okkar guðir, en djöfullinn var endurskoðunarstefnan (bannað að endurskoða biblíuna), auðvaldið og helstu pólitísku andstæðingar (þess vegna var tilhneiging til að forðast þá frekar en að glíma við þá í návígi). Þegar guðirnir brugðust einn af öðrum, brustu forsendur margra fyrir öllu altæku stjórnmálastarfi, himininn hrundi.

**Mannleg samskipti ótraust,** ónákvæm og ópersónuleg. Ótímabærar strangar öryggisreglur (eftiröpun erlendis frá) komu í veg fyrir eðlileg og nauðsynleg kunningjatengsl milli fólks sem vann mikið saman að sínu hjartans máli. Of mikið var um pappírstilskipanir, sem ekki voru ræddar og oft ekki heldur framkvæmdar, **mannlegt** eftirlit og aðhald of lítið. Samskipti óhreinskilin (líkt og víða annars staðar í þjóðfélaginu), þagað yfir gagnrýni og óánægju, en bakmag þeim mun meira. Hræðsla við gagnrýni, bæði innan og utan samtakanna.

**Skortur á raunverulegum menntamönnum** í samtökunum og kringum þau, alveg gagnstætt því, sem við áltium sjálf. Þegar vinna þarf stefnumótun og þjóðfélagsgreiningu nánast upp frá grunni, eru lífsreyndir, víðsýnir og mjög vel menntaðir forystumenn frumskilyrði. Þeir þurfa að hafa tileinkað sér það besta úr borgaralegri menningu og njóta þess næðis og efnahagslegrar aðstöðu til rannsókna, sem (borgaralegir) háskólar bjóða upp á. Hinir svokölluðu menntamenn í samtökunum voru ekki orðnir neinir menntamenn, þó svo að þeir væru í námi í menntaskólum og háskólum, nokkrir höfðu nýlokið fyrrihlutaprófi úr háskóla og nánast engir í framhaldsnámi á blómaskeiði maóistahreyfingarinnar á Íslandi 1974—1978. Annað vandamál er það, að það hafa sáralitlar félagsvísindahefðir náð að þróast hér á landi og Háskóli Íslands minnir um margt meira á slæman tækniskóla en háskóla. Það var því engin furða, þótt okkur gengi illa að hafa gagn af svo óhlutbundinni og flókinni fræðikenningu eins og marxisminn er og að við skulum hafa notað hana eins og lélegur kokkur notar mataruppskrift. Sama vandamál kvelur allaballa, Fylkinguna og ekki síst BSK.

Þá verður að benda á að í stað þess að efla menntun og víðsýni félaga og nýta þá hæfileika til vísindalegra þjóðfélagsrannsókna í anda marxismans kom neikvæð og tortryggin afstaða til allra menntamanna (sbr. stefnu fjórmenninga í Kína) samhliða verkalýðssnobbi (verkafólk veit þetta allt best sjálft).

**Engar hefðir fyrir sjálfsgagnrýni** eða hreinskilni í sjálfsmati í landinu (tengist því sem á undan er sagt). Kommúnistasamtökin eru líklega einu íslensku stjórnmálasamtökin sem hafa viðurkennt að hafa gert ýmis mistök og reynt að draga fjöður yfir það. Það hefur þó enn sem komið er ekki orðið þeim til framdráttar hvað lýðhylli varðar. Gagnrýnisleysi og glórulaust sjálfshól sem einkennt hefur öll pólitísk öfl í landinu (KSML og (EIKm-l) meðtalin) hefur líklega treyst þá afstöðu meðal fólks (og m.a. margra brottgenginna félaga okkar) að pólitískir flokkar og samtök eigi ekki (og þurfi ekki) að gera mistök. Við teljum það óhjákvæmilegt í stjórnmálum að gerð séu meiri háttar mistök og þegar til lengdar lætur munu þar skilja milli feigs og ófeigs hvort menn séu fljótir að uppgötva og viðurkenna mistökin og **læra af þeim.**

**Of mikil ábyrgð á forystu samtakanna, of lítil á félögum.** Hlutverk margra félaga varð lítið annað en að vinna verk sem forystan fyrirskipaði. Stjórn EIK var sumpart meðvituð um þetta, en tókst ekki að koma í veg fyrir það. Slíkt var lítt þroskavænlegt til lengdar. Starfsstíll innan samtakanna markaðist um margt ómeðvitað af því sem gerist annars staðar í þjóðfélaginu (t.d. hlutverkaskipti kennara og nemenda eða verkafólks og verkstjóra, þar sem annar hefur frumkvæði og hinn á að hlýða).

Við höfum almennt gert kúgarann einan ábyrgan fyrir kúgun, en ekki gert okkur grein fyrir, að sá sem lætur kúga sig ber ekki síður ábyrgð á kúguninni. Það er í hans verkahring að veita viðnám og brjótast undan okinu, hvort sem það er hugmyndalegt eða efnahagslegt. Við höfum fyrst og fremst skammað kúgarann fyrir að kúga en lagt of litla áherslu á að brýna fyrir hinum kúgaða þá ábyrgð sem á honum hvílir, hann einn getur haft frumkvæði um að aflétta kúguninni. Þannig höfum við óskapast yfir og skammað auðvaldið og verkalýðsforystuna, en hlift alþýðunni og verkalýðnum og afsakað um of.

Því varð það þannig, að þegar almennar efasemdir um ágæti stefnu og starfs EIK(m-l) komu upp 1977 og 1978, **afgreiddu** margir félagar málið með því að það væri sök forystunnar einnar, almennir félagar bæru litla ábyrgð á þessari stefnu og þessum röngu ákvörðunum forystunnar. Þeir gátu því verið stikkfrí og labbað burt, þegar þeim líkaði ekki lengur stefnupakkinn sem forystan bauð uppá. Menn fóru bara að leita sér að nýjum pakka, sem hentaði þeim betur. Þannig gerast kaupin á eyrinni í markaðsþjóðfélaginu, og í borgaralegum stjórnmálum, en er náttúrlega fullkomlega andstætt sósíalískum og kommúnískum starfsháttum. Flestir læddust því hljóðlega á brott og lærðu næsta fátt og ekki er víst að öllum hafi boðist skólavist annars staðar til að læra félagsleg sannindi eins og þessi — og verði svipuð mistök því endurtekin á öðrum vettvangi.

## Hvað stendur þá eftir af allri maóistahreyfingunni?

**Kommúnistasamtökin** með fáa, en reynda félaga, sem setja mótun **nýrrar** stjórnmálastefnu á oddinn, eru að vinna úr áratugs reynslu og nema af bókum og ætla að gefa út stefnumótandi bók á næstu misserum. Nú sem stendur er ör hugmyndaþróun og frjó í samtökunum.

**Gífurlegur pappírshaugur,** sjá skrá annars staðar í þessu tbl. VB.

**Kommúnistar í pólitískum dvala,** leggja sig mjög hart fram við nám og störf á öðrum sviðum um sinn og bíða jafnvel eftir betri skilyrðu til stjórnmálastarfs, gera sér kannske ekki allir grein fyrir að slíkt ástand verður að öðrum þræði meðvitað pólitískt starf marxista að skapa. Þeir telja sig jafnvel sumir ekkert hafa fram að færa í umræðunni núna, finnst þeir myndu vera dragbítur á okkur hin!

**Duglegir umbótasinnar,** sem starfa af krafti í stjórnum og nefndum fagfélaga og víðar, jafnvel að listaskopun, en sinna ekki altæku stjórnmála- og stefnumótunarstarfi, a.m.k. ekki um sinn.

**Félagar í öðrum stjórnmálasamtökum,** einkum í kvennaframboðunum og fáeinir í Alþýðubandalaginu.

**Fólk sem hefur dregið sig í hlé** frá mestöllu félagsmálavafstri, sinnir vel uppeldi barna sinna og annast betur maka sína en kommar gerðu í eina tíð.

Við höfum ástæðu til að óttast, að margt af þessu fólki gangi með stein í maganum og einhvers konar gremju eða sektarkennd vegna þess að pólitíska fortíðin hefur ekki verið gerð upp á hreinskilinn og opinskáan hátt. Sumir halda því blákalt fram, að allt þetta gífurlega amstur og barátta hafi verið til einskis og jafnvel málstað alþýðu til tjóns. Það ber að okkar mati vott um afar þröngt og einhæft mat á árangri af pólitísku starfi, þar sem mælikvarðinn er stærð samtaka og umfang pólitískra sigra þeirra einna. Kommúnistar vilja skoða fortíð sína til að læra af henni — því mestu skiptir að horfa fram á veginn. Hvers konar gremja eða sektarkennd yfir því sem liðið er getur ekki orðið annað en myllusteinn um hálsinn þegar tekist er á við mótun framtíðarinnar.

Reglulegri útgáfu Verkalýðsblaðsins verður nú brátt hætt. Hvernig það verkar á framtíð Kommúnistasamtakanna skal ósagt látið. Þau munu hins vegar leitast við að leita nýrra leiða við útbreiðslu og **mótun** marx-lenínisma á Íslandi. Fámenn samtök megna hins vegar ekki mikið, þótt þau útbúi spaklegar stefnuskrár. Margir áskrifenda Verkalýðsblaðsins eru fyrrverandi stuðningsmenn, félagar eða baráttufélagar. Á síðari misserum hefur sambandið við þá í gegnum blaðið verið mest á annan veginn, auk þess sem margir þeirra hafa verið fullir gremju yfir „sóðum" tíma. Í harðnandi pólitískri og efnahagslegri kreppu getur hins vegar komið á daginn, að sameiginleg reynsla og þekking okkar tengi okkur meira saman en okkur sýnist í augnablikinu.

# Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ari Trausti Guðmundsson (ábm.)
Aðsetur: Frakkastígur 14
Opnunartími: Fimmtudaga kl. 17.00—19.00
Sími: 2 92 12
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gíróreikningur: 12 200-9, Póstgíróstofan
Prentað í Offsetprent


# Kaflaskil í sögu marx-lenínista

Þetta tölublað Verkalýðsblaðsins, það fyrsta á árinu 1983, er jafnframt síðasta tölublað þess sem verður gefið út að sinni.

Kommúnistasamtökin líta svo á að sú þróun sem Verkalýðsblaðið hefur tekið að undanförnu gefi ekki tilefni til áframhaldandi útgáfu.

Ætlun samtakanna er ekki og hefur aldrei verið að gefa út sem aðalmálgagn umræðutímarit með löngum fræðilegum greinum, sem þar á ofan kemur ekki reglulega út. Svo hefur hins vegar orðið raunin á hvað Verkalýðsblaðið varðar.

Á síðasta ári hlóðust upp margvíslegir erfiðleikar í útgáfu blaðsins, sem nánar er greint frá annars staðar í blaðinu. Kommúnistasamtökin sáu ekki fram á að þau hefðu til þess bolmagn að greiða úr erfiðleikunum og tóku því þá ákvörðun fyrir áramót sl. að hætta útgáfu Verkalýðsblaðsins að sinni.

Með þessu síðasta tölublaði Verkalýðsblaðsins er lokið kafla í sögu marx-lenínista á Íslandi. Samfelldri 11 ára útgáfu, Stéttabaráttunnar og Verkalýðsblaðsins, er lokið.

Sú hætta er vissulega fyrir hendi, að dauði Verkalýðsblaðsins jafngildi endalokum marx-lenínísku hreyfingarinnar á Íslandi. Raunar má segja að hún hafi runnið sitt skeið **í þeirri mynd** sem hún hefur verið undanfarin áratug. En ýmis teikn eru þó á lofti sem benda til að marx-lenínismi eigi enn um sinn eftir að setja mark sitt á stjórnmálasöguna. Sá nýi kafli sem hefst við stöðvun Verkalýðsblaðsins er enn óskrifaður. Það er undir okkur sjálfum komið hvort hann verður ritaður.

Á undanförnum árum hefur mikið los komist á nær fimmtíu ára gamalt stjórnmálamynstur hérlendis. Þetta los á sér m.a. skýringu í því að verkalýðsflokkarnir svokölluðu hafa í æ ríkari mæli horfið frá sósíalískum og félagslegum stefnumiðum sínum og gert hefðbundin íhaldsúrræði að sinum. Stjórnmálaflokkarnir endurspegla ekki lengur allt litróf þeirra pólitísku hugsjóna og sjónarmiða sem fyrir eru í landinu.

Það er skoðun Kommúnistasamtakanna að fyrr en síðar nái hér fótfestu ný vinstri-sósíalísk stjórnmálahreyfing, sem fyllir það skarð sem hægriþróun A-flokkanna hefur skilið eftir. Við myndun slíkrar hreyfingar mega marx-lenínistar ekki sitja auðum höndum. Það er í verkahring þeirra að sjá svo um að byltingarinnaður marx-lenínismi verði mótandi í henni þegar frá upphafi.

Kommúnistasamtökin hafa þegar snúið sér að undirbúningi þátttöku sinnar í þeim pólitísku umhleypingum sem framundan eru. Endurskoðun þeirra hugmynda sem marx-lenínistar hafa haft um almenna stefnu sína uppi á Íslandi og mótun stefnu í einstökum málum eru meðal þeirra verkefna sem tekist er á við. Samtökin bjóða alla þá sem áhuga hafa velkomna til þátttöku í því starfi.

Verkalýðsblaðið óskar lesendum sínum og íslenskri alþýðu gæfu og gengis í baráttunni gegn auðvaldinu. Jafnframt þakkar blaðið öllum þeim sem hafa lagt því og fyrirrennurum þess lið. **óhs**

# Við komum aftur
## — kveðjuorð frá ritstjóra

Blöð marx-lenínista hafa sést í rúman áratug hérlendis, en hverfa nú um stund. Hugtakið marx-lenínisti (sem sumir vilja hafa maóisti) er nánast skammaryrði þegar þess er gætt að konar á borð við nýdauðan Brésneff og slátrarann Mengistu í Eþíópíu skreyta sig með slíku heiti. Ungir kommúnistar tóku þetta orð upp um 1970 til að aðgreina sig frá Alþýðubandalaginu — sem kenndi sig við marxisma og gerir víst enn. Með því vildu þeir líka forðast að kenna sig við einhvern af framámönnum marxismans (t.d. Maó Zedong). Þótt þetta titlatog hafi líklega ruglað margan manninn og verið notað til pólitískrar niðurlægingar, þá varð það samnefnari hreyfingar sem náði allmiklu fylgi 1977—1979, en hefur síðan fjarað nokkuð út. Blaðið Stéttabaráttan sem var málgagn ofurróttækni um hríð, var sameinað Verkalýðsblaðinu 1980. Er nú svo komið að ákveðið er að þetta tölublað VB verði það síðasta, a.m.k. um stund. **Þær lyktir munu valda** ýmsum **viðbrögðum**. Sumir verða fegnir að **gagnrýni** á þá skuli hverfa og stefnuboðun, andstæð þeirra skoðunum, sjáist ekki í ákveðnu málgagni. Aðrir sjá í þessu skemmtilegar ófarir keppinauta og halda að nú eflist þeirra eigin samtök — sem hafa jafnan hæðst í sjálfsánægju af öðrum en sjálfum sér. Enn aðrir verða óánægðir og vilja endilega geta haldið áfram að lesa blað á borð við VB. Loks eru margir sem vita ekki einu sinni af tilvist VB, sumpart vegna of lítils árangurs okkar sjálfra, sumpart vegna þess að borgaralegu flokkarnir fjórir hafa gert allt sem í þeirra valdi stendur til að sniðganga þá er reyna að brjótast inn að veisluborði þeirra.



En staðreyndir eru ljósar, hvað sem tautar og raular. Samtök marx-lenínista eru svo veikbyggð og lágmarkskrafa þeirra til málgagns svo ströng að þau geta ekki haldið úti nothæfu málgagni. Fjölritað smáblað eða tímarit breytir engu um ákvörðun samtakanna. Sjálfur hef ég ekki áhuga á að ritstýra fjölrituðu smáblaði, halda úti umræðublaði eins og VB er orðið eða gefa út blað fyrir skyndisnöp og án eðlilegs skipulags á útgáfunni eins og tíðkast t.d. með Neista eða önnur ,,hugsjónablöð''.

Við andstæðinga marx-lenínista og þá sem fagna brotthvarfi VB segi ég: —Afskrifið ekki hreyfingu okkar. Hún mun endurnýjast og er þegar orðin hluti pólitískrar vinstri hreyfingar í landinu með sérstöðu sinni í 12 ár.

Við velunnara VB segi ég: —Missir VB er vondur. Mikil bót væri að góðu kommúnísku mánaðar- eða vikublaði, nú í kreppu, stríðshættu og vegna upplausnar flokkakerfisins. En slíkt verkefni **leysa margir kommúnistar saman**, pólitískt, tæknilega og fjárhagslega. Vilji til útkomu VB og aðgerðaleysi einhvers kommúnista í stjórnmálabaráttunni samtímis er óleysanleg mótsögn!

Auðvitað hefur pólitískur áhugi minnkað meðal fólks (um stund?).

Auðvitað eru marx-lenínistar ósammála um mörg atriði.

Auðvitað (og því miður) þurfa margir marx-lenínistar að trúa á (!) markmið sín og aðgerðir til að nenna að vinna pólitískt.

Auðvitað hafa þeir þegar lagt fram mikið starf og uppskorið minna en þeir vonuðu.

Hvað sem öllum svona mótbárum líður er meginatriðið þetta:

Pólitísk starfsæfi manna — kommúnista — er lengri en einn áratugur. Marx-lenínistar eiga að axla saman þá **sameiginlegu** ábyrgð sem þeir bera á vegferð sinna eigin samtaka og málgagns — þar til pólitískar andstæður eru svo skarpar að menn eiga ekki samleið lengur. Afsakanir um pólitíska þreytu eða ,,eðlilega'' hjásetu í pólitískri baráttu eru að sjálfsögðu leyfilegar (og ég vil **ekki** gagnrýna fólk fyrir að bera þær fram). En þær eru **rangar** og ég vil gagnrýna fólk fyrir þá andfélagslegu hugsun og óhlutlægni sem býr að baki þeirra. Er ekki ein skýringin á langlífi kapítalismans sú afstaða allt of margra að **þeirra** barátta skipti ekki máli og að **þeirra** hamingja sé best fengin með því að standa utan við víglínu stéttabaráttunnar? Mér hefur verið álasað fyrir slíka gagnrýni og hún verið talin vera lítilsvirðing í garð félaga og stuðningsmanna. Við slíku tali á ég aðeins eitt svar: Það staðfestir að gagnrýni mín sé rétt ef menn svara henni ekki með rökum, heldur kvarta undan henni.

Verkalýðsblaðið verður til á ný ef annað tveggja gerist: Traustur hópur fyrrum, núverandi og tilvonandi félaga tekur strax höndum saman um að búa til nýja stefnuskrá (þegar á undirbúningsstigi) og gefa út blað **eða** þá að afgangur Kommúnistasamtakanna getur laðað til sín ferskt áhugafólk á næstu árum.

Um leið og ég kveð lesendur VB og sný mér að stefnuskrárvinnu Kommúnistasamtakanna minni ég á greinargerð um ástæður stöðvunar VB og um stöðu blaðsins hér í þessu tölublaði.

Gott gengi á árinu 1983
**Ari T. Guðmundsson**
**ritstjóri VB**

# Fræðslufundir SHA

Nú standa yfir fræðslufundir Samtaka herstöðvaandstæðinga. Hófst fundaröðin 11. jan. sl. (Orsakir styrjalda). 18. jan. var hafist handa við athuganir á vígbúnaðarkapphlaupi austurs og vesturs.

Þriðjudaginn 25. janúar var fundur um geislavirkni og áhrif hennar og þriðjudaginn 1. feb. var fjallað um afleiðingar kjarnorkustyrjaldar. Allir fundir eru að Hótel Heklu (kaffiteríu) og standa frá 20[30]—22[30].

Í febrúar og mars verða tekin fyrir ýmis viðfangsefni, s.s. hernaðaruppbygging í N-Atlantshafi, kjarnorkuvopnalaus svæði, saga hersetunnar á Íslandi, friðarhreyfingar, þjóðfrelsisbarátta o.fl.

SHA bjóða skólafélögum, verkalýðsfélögum o.fl. að útvega fyrirlesara eða framsögumenn á fræðslu- eða kappræðufundi um einhver þessara efna eða annarra tengdra.

Hafið samband við skrifstofuna, Frakkastíg 14, s. 17966, kl. 16—18. **agé**

# Friðarganga

Samtök herstöðvaandstæðinga efndu til göngu niður Laugaveginn síðdegis á Þorláksmessu. Göngumenn báru blys áletraða borða og 5 metra langa eldflaug af Pershinggerð. Sex menn báru flaugina í broddi fylkingar. Atli Gíslason flutti ávarp við upphaf göngunnar og Helga Jóhannesdóttir við enda hennar. Flugriti var dreift til vegfarenda, sem voru í óða önn að ljúka jólainnkaupum og létu fáir fjas um friðarmál trufla sig við þá iðju.

Aðgerðin var ákaflega lítið kynnt. Samtökin treystu sér ekki til að keppa við kaupmenn um athygli fólks, en sendu þess í stað tvisvar fréttatilkynningu til fjölmiðla. Sumir þeirra birtu aðra þeirra á lítt áberandi stöðum. Enginn fréttamaður eða blaðaljósmyndari virti gönguna viðlits og líklega er þessi klausa fyrsta fréttin, sem birtist um gönguna! Friðargöngur þykja ekki merkilegt fjölmiðlaefni, allra síst ef þær eru gengnar hérlendis. **ÞÓÁ**

# Punktar til útgáfusögu hreyfingar marx-lenínista 1972—1982


Verkalýðsblaðið
1. tbl. 12. árg.
7. febrúar 1983
Verð kr. 20.00
Verkalýðsblaðið hættir að koma út
Kommúnistasamtökin ákveða að leggja blaðið niður f.o.m. 1. tbl. 1983
Sjá nánar bls. 2—6
Erfidrykkja Verkalýðsblaðsins
Hvers vegna hættu svona margir? bls. 2
Við komum aftur bls. 3
Punktar til útgáfusögu marx-lenínista 1971—1982 bls. 4
Hvers vegna stöðvast Verkalýðsblaðið? bls. 6

**Nú þegar Verkalýðsblaðið kveður að sinni og e.t.v. fyrir fullt og allt er rétt að líta yfir farinn veg og gera nokkra grein fyrir útgáfustarfi hreyfingarinnar.**

**Með öllu er óvíst hvort nokkurs staðar er til heilt sett af opinberu útgáfuefni bæði KSML/KFÍ/ML og EIK(m-l), hvað þá alls konar dreifiritum og fundaplöggum. Hér verður heldur ekki gerð grein fyrir innri umræðu sem stundum fór fram í tímaritum sem komu út reglulega eða óreglulega.**

**Sérstökum erfiðleikum er bundið að vita hvort tiltekið tölublað er örugglega hið síðasta þegar um er að ræða blöð sem komu óreglulega út þótt oft sé það öruggt. Reynt er að auðkenna sérstaklega þar sem þetta er ekki þekkt.**

**Þá fylgir í skránum útgáfuefni samfylkinga sem voru annaðhvort tengdar þessum samtökum eða beinlínis á þeirra vegum. Aftur á móti er ekki reynt að gera starfi KSMLb nokkur skil né heldur starfi ,,maóista'' innan Fylkingarinnar fyrir 1975.**

## Verkalýðsblaðið — Stéttabaráttan

Núverandi Verkalýðsblað hefur komið út síðan í febrúar 1980 er **Stéttabaráttan** og **Verkalýðsblaðið** voru sameinuð. Stéttabaráttan hóf göngu sína 1972 og var fyrsta blaðið fjölritað og gefið út af Kommúnistahreyfingunni (KHML), undanfara KSML. Þetta fyrsta blað var fjölritað í Svíþjóð. Frá og með 2. tbl. var Stéttabaráttan offsetprentuð en ætíð var hún ,,sett'' á ritvél. Árið 1975 var farið að offsetfjölrita blaðið í eigin tækjum þar til 1979 að hafin var prentun í eigin tækjum. Þess ber að gæta að 7. tbl. 1974 var ritið ,,Palestína'' þannig að menn skulu ekki fara að leita dauðaleit að 7. tbl. Stéttabaráttunnar það ár.

Í febrúar og mars 1976 komu út a.m.k. 6 aukablöð vegna verkfalla þá og nokkur fylgirit sem voru með uppköstum að ályktunum fyrir stofnþing KFÍ/ML sem haldið var um páskana það ár.

EIK(m-l) hófu útgáfu Verkalýðsblaðsins í apríl 1975. Voru tvö fyrstu tölublöðin fjölrituð en hin voru offsetfjölrituð svo og 1. tbl. 1976. A.m.k. þau síðustu af þessum offsetfjölrituðu voru unnin í tækjum KSML. Með 2. tbl. 1976 hófst offsetprentun blaðsins en það var áfram ,,sett'' á ritvél. Blöðin voru sem fyrr segir sameinuð í ársbyrjun 1980. Fyrsta tölublað bar nafn beggja: **Verkalýðsblaðið—Stéttabaráttan**, og var það nefnt 5. tbl. 9. árg. Var það fundið þannig út að samtals hefðu komið út 4 tölublöð út á því ári af báðum blöðunum og var árgangatalan miðuð við eldra blaðið.

Í júní féll nafn Stéttabaráttunnar úr hausnum og frá og með síðasta blaði ársins 1981 hefur blaðið ekki lengur verið vélritað, heldur sett með alvöru setningarvél.

EIK(m-l) fengu sér offsetprentunartæki sem tekin voru í notkun 1978 og voru þau notuð fram á árið 1981 er samið var við **Offsetprent** um prentun og aðra vinnslu.

## Rauði fáninn, Rauðliðinn

Þessi tímarit voru kölluð **fræðileg málgögn.**

KSML hófu útgáfu **Rauða fánans** 1972 og kom þá út eitt tölublað. Raunar kom hann aðeins tvisvar út á ári næstu tvö ár en hvert hefti kallað tvöfalt. Svo var og með 2.—3. tbl. 1976 og 1.—2. tbl. 1977.

Athugasemd: 2.—3. tbl. 1976 er mjög einkennilega merkt: 2.—3. árg. 5. tbl.!

**Rauðliðinn** var gefinn út af EIK(m-l). Athuga ber að prentuðu heftin eru í raun aðeins fjögur; 2.—3. tb 1978 og 1.—2. tbl. 1979 voru tvöföld hefti gefin út, en fram til 1978 var ritið fjölritað.

## Stéttabaráttan

| Árg. | Ár | Fjöldi tölublaða |
|---|---|---|
| 1 | 1972 | 4 |
| 2 | 1973 | 8 |
| 3 | 1974 | 12 |
| 4 | 1975 | 12 |
| 5 | 1976 | 24 |
| 6 | 1977 | 48 |
| 7 | 1978 | 45? |
| 8 | 1979 | 31? |
| 9 | 1980 | 1 |

## Verkalýðsblaðið

| Árg. | Ár | Fjöldi tölublaða |
|---|---|---|
| 1 | 1975 | 7 |
| 2 | 1976 | 12 |
| 3 | 1977 | 16 |
| 4 | 1978 | 23 |
| 5 | 1979 | 23 |
| 6 | 1980 | 3 |

## Verkalýðsblaðið—Stéttabaráttan

5.—10. tbl. 1980 9. árg.

## Verkalýðsblaðið

| Árg. | Ár | Fjöldi tölublaða |
|---|---|---|
| 9 | 1980 | 11.—17. tbl. |
| 10 | 1981 | 12 |
| 11 | 1982 | 10 |

## Rauði fáninn

| Árg. | Ár | Fj. tbl. | Prenttækni, stærð |
|---|---|---|---|
| 1 | 1972 | 1 | Fjölritaður A4 |
| 2 | 1973 | 4 | Fjölritaður A4 |
| 3 | 1974 | 4 | Fjölritaður A4 |
| 4 | 1975 | 4 | Offsetfjölritaður millistærð |
| 5 | 1976 | 3? | Offsetfjölritaður A5 |
| 6 | 1977 | 2? | Offsetjölritaður A5 |
| 7 | 1979 | 2? | Offsetfjölritaður A5 |


ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT
Stéttabaráttan
„Sagan á umliðnum öldum saga um stéttabaráttu"
Fyrstu drög að byltingarstéttaskilgreiningu þjóðfélagsins
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
málgagn einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)
1. tbl. 1. árg. apríl 1975
VERKALÝÐSBLAÐIÐ Stéttabaráttan
Félagsmálapakkinn er „Bólginn af innan-tómum f...urgala"
Verkalýðsblaðið
11. tbl. 9. árg.
Ekki samningsgrundvöllur!
Verkalýðsblaðið
7. febrúar 1983
1. tbl. 12. árg.
Verkalýðsblaðið hættir að koma út
Kommúnistasamtökin ákveða að leggja blaðið niður f.o.m. 1. tbl. 1983
Sjá nánar bls. 2—6
Erfidrykkja Verkalýðsblaðsins
Við semjum stefnumarkandi bók

## Rauðliðinn

| Árg. | Ár | Fj. tbl. | Prenttækni, stærð |
|---|---|---|---|
| 1 | 1975 | 2 | Fjölritaður A4 |
| 2 | 1976 | 2 | Fjölritaður A4 |
| 3 | 1977 | 3 | Fjölritaður A4 |
| 4 | 1978 | 4 | Offsetprentaður A5 |
| 5 | 1979 | 2 | Offsetprentaður A5 |




**til baráttu**, námsmannablað EIK(m-l), ritstýrt af íslenskum námsmönnum í Noregi og Svíþjóð.

| Árg. | Ár | Fj. tbl. | Prenttækni, stærð |
|---|---|---|---|
| 1 | 1977 | 2 | Fjölritað A4 |
| 2 | 1978 | 1 | Fjölritað A4 |

**Barátta gegn endurskoðunarstefnu**, gefið út af klofningshópi úr KFÍ/ML („sjömenningunum"). Út komu 3 tbl.: Nr. 1 og 2 árið 1977 og nr. 3 árið 1978. Öll fjölrituð í stærðinni A4.

**Verkalýðsbaráttan** frá stuðningsdeild KSML á Snæfellsnesi. 1. tbl. 1. árg. ágúst 1975, offsetfjölritað A4.

**Dagsbrúnarverkamaðurinn.** Baráttuhópur Dagsbrúnarverkamanna.

| Árg. | Ár | Fj. tbl. | Prenttækni, stærð |
|---|---|---|---|
| 1 | 1976 | 3? | Offsetfjölritað, dagblaðsbrot |
| 2 | 1977 | 3? | Offsetfjölritað, dagblaðsbrot |

**Straumsvíkurverkamaðurinn.**

1. tbl. 1. árg. Útgefandi: Straumsvíkursella KSML. A4.
4. tbl. 1. árg. Útgefandi: Baráttuhópur verkamanna. A4.

**Námsmannablaðið.** Baráttuhreyfing námsmanna.

| Árg. | Ár | Fj. tbl. | Prenttækni, stærð |
|---|---|---|---|
| 1 | 1976 | 1 | Offsetfjölritað 4to |
| 1 | 1977 | 1 | Offsetfjölritað, dagblaðsstærð |

**Áfram**

Nr. 1, 1975. Baráttusamtök launafólks (BSL), Ak. Fjölr. A4.

**Rauð æska.** Gefið út af samnefndum félagsskap. Kom fyrst út 1974 og e.t.v. síðast í júlí 1976. Offsetfjölritað í ýmsu broti.

**Sjómaðurinn.** Útgefandi: Frjáls samningsréttur. 1. tbl., 1. árg. 1976, offsetfjölritað 4to.

**Nýi verkamaðurinn**

| Tbl. | Ár | Útgefandi | Prentt., stærð |
|---|---|---|---|
| 1.—2. | 1975 | KSML Akureyri | Fjölr., folio |
| 3.—4. | 1975 | KSML Akureyri | Offsetfj., millist. |
| 5.—6. | 1975 | KSML og EIK(m-l) Ak. | Offsfj., millist. |
| 7. | 1975 | KSML og EIK(m-l) Ak. | O.fjöl. A4 sérútg. |
| 8. | 1975 | KSML og EIK(m-l) Ak. | Offsfj. í st. broti |
| 9. | 1975 | KSML Akureyri | Offsfj. í st. broti |
| 1.—2. | 1976 | KSML Akureyri | Prentað, millist. |
| 3.—4. | 1976 | BSL Akureyri | Prentað, millist. |
| 5. | 1976 | BSL Akureyri | Offsfj., dagblbrot |




**Skrá um bækur, bæklinga o.fl.**

1. **Félagabréfið nr. 1.** Gautaborgarhópurinn m-l. 11. 7. 1971, fjölritað A4.
2. **Félagabréfið nr. 2.** Reykjavíkurhópurinn m-l. 1971. Fjölritað A4.
3. **Félagabréfið nr. 3.** G m-l, R m-l, nóv. 1971. Fjölritað A4
4. **Reynslan af kjarabaráttunni.** Ályktun Strassborgarþings Rauðra verkalýðsfélaga. KHML mars 1972. Fjölritað A5
5. V.I. Lenín: **Um verkföll.** KHML 1972. Fjölritað A5
6. **Námsfólk og verkalýðsbylting.** Samið af norskum ungkommúnistum, þýtt af hópi sem síðar átti aðild að stofnun EIK(m-l). Þjóðmáladeild Hugins, skólafélags MA, 1973 Fjölritað A4




7. Námshringur KSML: **Um flokkinn.** Apríl 1973 A5
8. Námshringur KSML: **Díalektísk og söguleg efnishyggja.** [1973] A5
9. Námshringur KSML: **Grundvöllur pólitísku hagfræðinnar.** [1973]? Fjölritað A4
10. **1. ráðstefna KSML.** 27.—30. des. 1973 Fjölr. A4
11. **Ályktanir 1. ráðstefnu KSML.** Lenín-Stalín forlagið. Mars 1974 Fjölritað A5
12. V.I. Lenín: **Heimsvaldastefnan og klofningur sósíalismans.** Lenín-Stalín forlagið. Nóv. 1974 Fjölritað A4
13. EIK(m-l): **Baráttuleið alþýðunnar.** [1. útg.] 1974
14. **Ályktanir fyrsta sameiginlega þings norrænna marx-lenínista.** Október-forlagið. Jan 1975 Fjölritað A4
15. EIK(m-l): **Ályktanir og samþykktir stofnþings EIK(m-l).** Október-forlagið. Jan. 1975 Fjölr. A4
16. **Afstaðan til Stalíns.** Af blöðum alþýðubaráttunnar 1. Október-forlagið 1975. Offsetfjölritað
17. **Gegn trotskisma og vinstri róttækni.** Af blöðum alþýðubaráttunnar 2. [Selt með útskornum síðum 25—44 þegar þiða var í samskiptum EIK(m-l) og KFÍ/ML] Október-forlagið 1975 Offsetfjölritað
18. Hvað ber að gera? 1: **Stefna EIK(m-l) í kjaramálum.** Október-forlagið [1975] Fjölritað A5
19. Hvað ber að gera? 2: **Í landhelgismálinu.** Október-forlagið. [1975] Fjölritað A5
20. Ho Chi Minh: **Fangelsisdagbók.** [ljóð] Október-forlagið 1975 Offsetprentað.
21. EIK(m-l): **Burt með stéttasamvinnuna.** Verkalýðsblaðið — sérútgáfa [1975] Fjölritað A5
22. **Söngbók verkalýðsins.** Verkalýðsforlagið júlí 1975 Offsetfjölritað A6
23. J.V. Stalín: **Grundvöllur lenínismans.** Fyrirlestrar haldnir við Sverdlovsk-háskólann í apríl 1924. 2. útg. breytt. Verkalýðsforlagið 1975 Fjölritað
24. EIK(m-l): **Frumdrög að skóla- og æskulýðsmálastefnu.** Októberforlagið. Nóv. 1976 Fjölritað A5
25. **Fram til stofnunar Kommúnistaflokks Íslands.** Hvað vill EIK(m-l)? [Frá 2. landsþingi EIK(m-l)] Október-forlagið [1976] Fjölritað A4
26. EIK(m-l): **Baráttuleið alþýðunnar.** 2. útg. Október forlagið 1976.
27. **Hvað vill KFÍ/ML?** [Stefnuskrá] Verkalýðsforlagið 1976 Offsetfjölritað A5
28. **Gegn vinnulöggjöf auðvaldsins.** Verkalýðsforlagið júlí 1976 Offsetfjölritað A5
29. **Gerum verkalýðshreyfinguna að baráttuhreyfingu.** Október-forlagið des. 1977 Fjölritað A4
30. **Bráðabirgðalög 1.** [söngbók] Október-forlagið 1978.
31. **Bráðabirgðalög 2.**[söngbók] Október-forlagið 1978.
32. **Fræðikenning og starf byltingarinnar.** Ritstjórnargrein Raddar alþýðunnar í Albaníu 7. júlí 1977. Október-forlagið 1978 Fjölritað A4
33. „Kenning Maós formanns um að greina á milli þriggja heima er mikilvægt framlag til marx-lenínismans". **Ritstjórnargrein Dagblaðs alþýðunnar í Peking 1. nóv. 1977.** Október-forlagið 1979 Offsetprentað A5
34. **Sovétríkin og A.-Evrópa.** 21. ág.-hreyfingin 1978. Fjölritað A4
35. **8. mars-hreyfingin.** Nóv. 1978 Fjölritað A4
36. **Ísland fullvalda 1918—1978.** Baráttuhreyfingin 1. des. 1978. Offsetprentað A5
37. **Hve lengi ætlar „KFÍML" að teygja lopann?** [Bréfaskipti] Október-forlagið 16. janúar 1979. Fjölritað A4
38. **Námskeið EIK(m-l) í kommúnískum fræðum.** Október-forlagið 1979. Fjölritað A5

**Samantekt: i.á.j. o.fl.**

# Hvers vegna stöðvast Verkalýðsblaðið

## — greinargerð frá félagsfundi KS

### Útgáfuáætlun ekki haldin

Verkaýðsblaðið kom út 9 sinnum á árinu 1982 í stað 12 eins og fyrirhugað var. Síðufjöldi var ýmist 4 eða 8 síður á hvert blað. Í ársbyrjun 1982 var gefin út útgáfuáætlun, unnin af þáverandi ritnefnd og fjárhaldsmanni. Þar voru ákveðnir ritnefndarfundir, síðasti skiladagur efnis og útgáfudagur, eins og ávallt hefur tíðkast í einhverju formi hjá VB. Er skemmst frá því að segja að mjög illa gekk að halda áætlun, bæði vegna hyskni félaga og starfsálags á einstaka félögum. Skilafrestur greina riðlaðist og útgáfudagar hafa jafnan miðast við þann tíma sem vinnslufólk hefur getað gefið sér frá öðru. Mesti dráttur á útgáfu varð þrjár vikur og sumarleyfi varð lengra en áætlað var.

### Ör mannaskipti

Ör mannaskipti í ritnefnd hefur ávallt verið einn veikleika VB. Síðasta fullskipaða ritnefnd var skipuð fimm mönnum, þar af var Ari T. Guðmundsson valinn sem ábyrgur ritstjóri, en Ómar Harðarson sá tæknilegi. Fljótlega riðlaðist þessi ritnefnd af ýmsum orsökum og í ljós kom að einn félaganna hafði ekki áhuga á starfinu þegar til kom. Einn félaganna var, auk þess að sitja í ritnefnd, afgreiðslustjóri blaðsins og gat lítið sinnt ritnefndarstörfum. Þegar allt kom til alls lenti stór hluti ritnefndarstarfa og skipulagningar á herðum eins manns. Undir lok ársins 1982 var því tekið það ráð að láta ritnefnd VB renna saman við stjórn Kommúnistasamtakanna og leysa þannig brýnustu vandamál.

### Breytt vinnsluferli

Framan af ári færðist hluti vinnslunnar úr höndum félaga KS og átti með því að létta félögum störf. En sleifarlag við skipulagningu vinnslu leiddi til þess að ófært var að standa í skilum við utanaðkomandi fólk og færðist stærstur hluti vinnslunnar í hendur eins félaga. Er ljóst að hann getur auðvitað ekki staðið undir slíku í langan tíma. En vissulega hefur bætt vélavinnsla og umbrot gert að verkum að grafískt útlit blaðsins hefur sjaldan verið betra. Reynslan sýnir að lítil von er til þess að starf að útgáfu VB geti orðið í bili með þeim hætti að aftur megi taka upp ,,vinnslu úti í bæ''.

### Sæmilegar fjárreiður

Ágætur skikkur hefur veirð á fjármálum VB. Tekjur VB eru áskriftir og fjárframlög einstaklinga. Gjaldkeri hefur að mestu innheimt áskriftargjöld sjálfur eða reynt að nota gíró, sem virðist vonlítið hérlendis. Hitt er svo rétt að taka fram að áskrifendur sem ekki borga hafa verið teknir af skrá, öfugt við það sem víða tíðkast!

Miðað við greiddar áksirftir 1981 og 1982 eru áskrifendur milli 400 og 500 og því fækkað nokkuð jafnt og þétt — ekki vegna uppsagna, heldur fyrir vanrækslu (ógreidd gjöld, ónýt heimilisföng) og vegna engrar endurnýjunar með áskriftaöflun. Blaðið er skuldlaust og ekki rekið með halla 1982, en auðvitað stefnir í hann ef fram heldur sem horfir. Lausasala VB er nánast engin sl. tvö ár og nokkrar tilraunir til útbreiðsluátaks hafa ekki heppnast vegna áhugaleysis félaga og velunnara blaðsins. Fjárhaldsmaður óskar ekki eftir að halda starfi sínu áfram og ljóst að erfiðleikar við rukkun 1983 munu verða geysilegir.

### Breytt efnisval

Blaðið er nú fræðilegra en áður var og höfuðeinkenni þess eru umræðugreinar og ýmsar gagnrýnar vangaveltur. Þessum breytingum til jafns hefur blaðið misst gildi sem áróðursblað og er umfjöllun um dægurmál og verkalýðsmál mun minni en áður og yfirbragð allt miklu þyngra, enda lifandi blaðamennska lítil. Stefnuboðun KS er lítil að vöxtum og mest á herðum ritstjórnanna einna.

Útilokað er að meta hvaða skoðun lesendur hafa á blaðinu og efnisvali þess. Skoðanakönnun færði okkur 10 svarmiða (2%). Kom fram á þeim fremur óánægja með blaðið en hitt og mjög samhljóma kröfur þó um **alhliða blað.** Engar marktækar ályktanir má samt draga af svo fáum svörum. En vissulega speglar efnisval ástand samtakanna, hvað sem áliti lesenda líður.

Mjög erfiðlega hefur gengið að fá félaga eða aðra til að skrifa í VB og hafa aðeins borist óumbeðnar greinar frá einum aðila. Nokkuð er um að efnisloforð séu svikin og efni berst að hluta mjög seint. Verður endanlegt efnisval því handahófskennt miðað við efnisval ritnefndar. Höfundar eru jafnan fáir og eiga sumir of stóran hlut. Frágangur greina í VB er oft lélegur, málfar flausturslegt og myndefni af skornum skammti.

### Hlutverk VB

Enn er VB málgagn Kommúnistasamtakanna. Það er ekki almennt vinstri sinnað mánaðarblað. Ef þörf er á slíku blaði nú er það ekki gefið út af einum smásamtökum. Vanti menn aukinheldur umræðuvettvang má benda á önnur blöð, dagblöðin og tímarit. Í ljósi þessa hljóta KS að setja blaði sínu markmið. Þau eru að minnsta kosti þríþætt.

1. VB á að boða og þróa grundvallarstefnu og stjórnlist KS.
2. VB á að vera áróðursmálgagn, aðallega með því að útskýra og taka afstöðu til mála efst á baugi hverju sinni, á lifandi hátt.
3. VB á að vera umræðuvettvangur.

Vegna þróunar marx-lenínísku hreyfingarinnar hefur VB æ meir reynst ófært um að axla tvo fyrstnefndu hlutverkin. Ennfremur sýnir viðgangur VB að blað lifir ekki á síðastnefnda hlutverkinu einu. VB getur ekki þjónað hlutverki pólitísks blaðs í heild og það verkar líklega fráhrindandi á þorra lesenda. Reynslan sýnir ennfremur að allstór lifandi og samhentur hópur verður að standa að baki nothæfu pólitísku blaði á Íslandi. Þar kemur t.d. til að markaður er í raun lítill en kostnaður sá sami og erlendis (jafnvel hærri). Þetta veldur vandræðum. Aftur á móti nær lítið upplag til stórs hluta þjóðarinnar. Er það kostur. Hvað snertir samstöðu hópsins og stærð þá er ljóst að hann verður að hafa einhver marktæk tengsl inn í hina daglegu baráttu og samtökin verða að líta á málgagn sitt sem mikilvægasta baráttutækið, vinna við það á einhvern hátt, hver maður og geta, sökum álitlegs fjölda sambandsfólks, gert það vandað og fjölbreytt.

Niðurstaða greinargerðarinnar er þessi:

a. Síðasta tbl. VB komi út í janúar 1983. Þar verði m.a. gerð grein fyrir ástæðum stöðvunarinnar, stöðu blaðs og samtaka og fyrirætlunum KS.
b. Því sé lýst yfir að VB kunni að koma út á nýjan leik á árinu 1983 eða 1984 og verði þá sent núv. áskrifendum.
c. Að samningu stefnuskrár KS sé hraðað.

**agé**

# Sovétríkin
# Ríkiseigna

**Í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins færði ég rök að því að skilgreiningar okkar á Sovétríkjunum sem kapítalísku ríki væru byggðar á harla veikum grunni. Þá hafði ég enn ekki séð grein Hjalta Kristgeirssonar í sama blaði né hafði ég haft tækifæri til að kynna mér kenningar og skilgreiningar Mikael S. Voslenski á Sovétríkjunum sem koma fram í greininni ,,Sérskráin'' og í bók hans ,,Sérskráin — valdastétt Sovétríkjanna''. Þar er greinilega á ferðinni eitthvert mikilvægasta framlag á síðari tímum til díalektískrar efnishyggjuskilgreiningar á sovéska þjóðfélaginu og því þjóðfélagskerfi sem þar ríkir. Þessa bók þarf skilyrðislaust að þýða yfir á íslensku.**

**Í lok greinar minnar varpaði ég fram mörgum spurningum um hvers konar þjóðfélagskerfi væri í Sovétríkjunum og hvers konar efnahagslögmál verkuðu á sovéskt efnahagskerfi og kvaðst mundu setja fram nokkrar hugmyndir um það síðar. Að sjálfsögðu ætla ég mér ekki þá dul að veita endanleg svör við því enda skortir mig til þess forsendur.**

### Fáveldi skrifræðisaðals

Hin nýja yfirstétt í Sovétríkjunum komst til valda með byltingu sem beindist gegn öllum yfirstéttum. Það þarf því engan að undra að hún neitar að viðurkenna að hún er yfirstétt sem drottnar yfir og arðrænir hinn vinnandi lýð í skjóli efnahagslegra, pólitískra, hernaðarlegra og menningarlegra valda sinna.

Allar mikilvægar ákvarðanir á sviði efnahagsmála, hernaðarmála og jafnvel menningarmála eru teknar af þessum mjög svo fámenna hópi skrifræðisaðals eða sérskránni eins og þessi stétt er líka kölluð. Alþýðan í landinu fær ekki einu sinni að hafa áhrif á minniháttar ákvarðanir á þessum sviðum heldur eru þær teknar af miklum fjölda embættismanna sem flesta dreymir um að vinna sig upp í hina drottnandi stétt og taka þess vegna ákvarðanir sem fyrst og fremst þjóna hagsmunum hennar og fyrirmælum.

Lýðræðið er af svo skornum skammti að það heyrir til undantekninga að alþýða landsins sé spurð álits á stefnu forystunnar, þótt henni sé oft fyrirskipað að sýna ,,stuðning sinn'' við ákvarðanir skrifræðisaðalsins. Hvergi vottar fyrir því sósíalíska lýðræði sem frumkvöðlar marxismans börðust fyrir og vinnandi alþýðu hefur dreymt um. Borgaralegt lýðræði Vesturlanda virðist í fljótu bragði eftirsóknarvert markmið sé miðað við það ófrelsi sem ríkir í Sovétríkjunum þar sem hið frjálsa frumkvæði og þróun einstaklingsins sem er grundvöllur sósíalísks þjóðfélags er bælt eftir mætti.

Sósíalisminn sem var markmið októberbyltingarinnar hefur breyst yfir í andstæðu sína. Í stað þess að auka stöðugt lýðræði alþýðunnar, draga

# Aðskilinn

## — svar til rb

Auðvitað erum við rb sammála um að verkalýðsstéttin hafi ekki völdin í Sovétríkjunum. Ágreiningurinn er þessi: rb telur hagkerfið sósíalískt en stjórnarfarið ekki, samt eru Sovétríkin ekki kapitalísk. Ég tel bæði hagkerfi og stjórnkerfi miðstýrðan ríkiskapitalisma.

Ekki er rúm eða tími til að taka fyrir rök rb efnislega. Sum eru líka staðhæfingar sem erfitt er að segja nokkuð um — helst er bara að bera á móti þeim. Vonandi gefst tækifæri til að takast á um rökin annars staðar.

Hér fara á eftir aðeins nokkrar hugleiðingar.

Arðrán kapitalista byggir á yfirráðum þeirra yfir framleiðslutækjum. Ein meginhugmynd sósíalismans er auðvitað sú að koma yfirráðunum yfir í hendur verkafólks sem arðrænir ekki sjálft sig — **ef yfirráðin eru raunveruleg.** Kúgun og ríkidæmi eru vissulega afstæð hugtök. Er vinnandi fólk kúgað í Sovétríkjunum? Lifir þar hópur manna í miklu ríkidæmi miðað við aðra — fólk sem eignast sinn auð á **sama** hátt, efnahagslega og pólitískt?

# r fáveldi



**,,Framleiðslumarkmiðið og skipulagning framleiðslunnar snýst allt um að viðhalda yfirráðum skrifræðisaðalsins. Þess vegna er lögð svona mikil áhersla á þungaiðnaðinn.''**

úr og fella niður forréttindi sérfræðinganna og koma á sósíalisma á öllum sviðum þjóðlífsins, einangraðist forystusveitin frá almenningi, þrengdi lýðréttindi og jók forréttindi alls kyns sérfræðinga og þó fyrst og fremst eigin sérréttindi. Án þess að ég treysti mér til að gera stéttagreiningu á sovésku þjóðfélagi virðist mér sem grundvallarmóthverfa þjóðfélagsins sé á milli hinnar vinnandi alþýðu (þ.e. iðnaðarverkamanna, landbúnaðarverkamanna, þjónustuverkamanna, óbreyttra tæknifræðinga og fleiri) og skrifræðis- og embættismannaaðals hins vegar.

## Grundvallar-efnahagslögmál Sovétríkjanna

Í ritgerð sinni ,,Efnahagsvandamál sósíalismans í Sovétríkjunum'' fjallaði Stalín m.a. um ýmis efnahagslögmál sem hann taldi einkenna sósíalismann og sovéskt efnahagskerfi. Í rauninni má almennt tala um þrenns konar efnahagslögmál.

Í fyrsta lagi efnahagslögmál sem gilda almennt um öll þjóðfélög eins og t.d. lögmálið um að framleiðsluafstæður þjóðfélagsins byggi á framleiðsluháttum þess og endurspegli þá á díalektískan hátt.

Í öðru lagi eru lögmál sem gilda fyrir fleiri en eina þjóðfélagsgerð en þó ekki í öllum þjóðfélögum. Þetta á við um lögmálið um skiptagildi sem gildir fyrir öll þjóðfélög þar sem vöruframleiðsla er. Þetta lögmál hefur ákaflega mikil áhrif á framleiðslu í öllum þjóðfélögum nútímans en marxistar hafa spáð því að í framtíðinni þegar kommúnisma hafi verið komið á þá hætti þetta lögmál smám saman að hafa áhrif.

Í þriðja lagi eru þau lögmál sem er einkennandi fyrir ákveðin efnahagskerfi. Þannig hlýtur alltaf að vera hægt að finna ákveðin efnahagslögmál í ákveðnu þjóðhagkerfi sem eru sérstök fyrir það og andstæð þeim lögmálum sem einkenna andstæð efnahagskerfi.

Í framangreindu riti sínu fullyrðir Stalín að grundvallarlögmál sósíalískrar framleiðslu sé fólgið í því að **markmið** hennar sé að uppfylla stöðugt auknar menningarlegar og efnalegar kröfur alls þjóðfélagsins og **aðferðin** sem sé notuð til þess að ná þessu markmiði sé stöðugt meiri fullkomnun sósíalískrar framleiðslu á grundvelli nýrrar tækni. Þetta grundvallarlögmál stendur í andstöðu við grundvallarlögmál kapítalískrar framleiðslu sem er framleiðsla gildisauka.

Ég held að við getum ekki annað en tekið undir þessa skilgreiningu Stalíns með þeirri viðbót samt að lögmálið sem hann telur grundvallarlögmál sósíalismans gildir ekki síður um æðra stig kommúnismans og afmarkar sósíalismann ekki sérstaklega frá því. En gildir þetta lögmál í Sovétríkjunum? Er einhliða þróun þungaiðnaðarins á kostnað léttaiðnaðar og landbúnaðar í þágu alþýðunnar í landinu og eru framleiðsla vígvéla sem notaðar eru til að halda þjóðum Austur-Evrópu í skefjum og til að murka lífið úr afganskri alþýðu til að uppfylla menningarlegar og efnalegar kröfur sósíalísks þjóðfélags? Slíkt er af og frá.

Þetta lögmál hefur snúist upp í andstæðu sína í Sovétríkjunum. Það er að vísu ekki framleitt fyrir gildisauka fyrst og fremst eins og í kapítalísku löndunum heldur hefur framleiðsla í þágu alls þjóðfélagsins snúist upp í framleiðslu í þágu alls þjóðfélagsins **eins og skrifræðisaðallinn skilgreinir** hana, þ.e. framleiðslumarkmiðið og skipulagning framleiðslunnar snýst allt um að viðhalda yfirráðum skrifræðisaðalsins. Þess vegna er lögð svona mikil áhersla á þungaiðnaðinn sem í eðli sínu er mjög samþjappaður og auðvelt að hafa stjórn á þveröfugt við léttaiðnaðinn, auk þess sem hann er nauðsynlegur fyrir hergagnaframleiðsluna; þessvegna er bændum haldið í stórum og framleiðslulega óhentugum ríkisbúum, þar sem verði landbúnaðarafurða er haldið í lágmarki, því að þannig er auðveldara að hafa stjórn á þeim; og þess vegna er það í þágu Sovétríkjanna að ausa stórfé til framleiðslu árásarvopna því að þannig geta skrifræðisherrarnir látið völd sín ná út fyrir landamæri Sovétríkjanna.

## Önnur lögmál

Annað efnahagslögmál sem gjarnan hefur verið talið einkenna sósíalismann er jöfn og stöðug efnahagsþróun byggð á efnahagsáætlunum andstætt kapítalismanum þar sem blind og stjórnlaus markaðslögmál ríkja.

Í Sovétríkjunum er fjárfestingum vissulega stjórnað ofanfrá og að því leyti stundaður áætlanabúskapur en þar sem einföld efnahags- og náttúrulögmál eru hvað eftir annað hunsuð við gerð efnahagsáætlana standast þær yfirleitt illa og raunar ekki miklu betur en efnahagsspár í auðvaldslöndunum. Að baki fjárfestingarákvörðunum liggja þess í stað pólitískar vangaveltur skrifræðisaðalsins og umhyggja um eigin völd og forréttindi þannig að **í stað jafnvægis í efnahagslífinu hefur skapast meira ójafnvægi í því en er hugsanlegt í kapítalísku hagkerfi** þar sem gildislögmáli fær að hafa sem næst óheft áhrif. Gróðasóknin kemur líka í veg fyrir mikla sóun innan fyrirtækja í auðvaldslöndunum en í Sovétríkjunum hefur skrifræði og ofurmiðstýring leitt til **gegndarlausrar sóunar** á vinnuafli, hráefnum og orku, þannig að líta má á það sem efnahagslögmál.

Sósíalíska efnahagslögmálið um að hver og einn eigi að fá greitt í samræmi við vinnuframlag gildir líka augljóslega ekki í Sovétríkjunum. Nær væri að segja að hver og einn fengi greitt eftir völdum innan valdastéttarinnar (ekki eignum og arðbærri veltu eins og kapítalistar í auðvaldslöndunum). Laun verkalýðsins virðast ákvarðast af framboði og eftirspurn hvað varðar launamismun milli starfsgreina og landssvæða og grundvallarlega virðast þau fara eftir ,,framleiðslukostnaði vinnuaflsins'' eins og í auðvaldslöndunum þótt meðvitaðar ákvarðanir skrifræðisaðalsins á því hvað launagreiðslur eigi að vera háar hafi e.t.v. mikil áhrif.

## Að lokum

Sovéskum ,,sósíalisma'' verður að hafna með öllu sem raunhæfri fyrirmynd kommúnista um allan heim. Það verður að berjast gegn heimsvaldaáformum og drottnunarsókn sovéska skrifræðisins. Kommúnistar utan Sovétríkjanna geta samt ekki nema að litlu leyti svipt hulunni af eðli drottnunar skrifræðisaðalsins **innan** Sovétríkjanna þótt við hljótum að benda á sýnilegan skyldleika hans við ört vaxandi hóp skriffinna á Vesturlöndum sem drottnar yfir ríkisreknum stórfyrirtækjum, risastórum fyrirtækjasamsteypum og stofnunum og sjóðum verkalýðshreyfingarinnar án þess þó að vera eigendur á beinan eða óbeinan hátt, eins og t.d. hjá Sambandinu á Íslandi. Okkur er ekki að fullu ljóst hvernig okkur ber að snúast gegn þessu valdi hér á Vesturlöndum, hvort það er hægt að rjúfa bandalag skriffinnanna við auðvaldið, sem sumir telja reyndar að þeir teljist til, og hvort það er hægt að steypa þeim innanfrá með endurvaldatöku fjöldans í samvinnufélögunum og verkalýðsfélögunum og skipulagsbreytingum í ríkisfyrirtækjunum. Þaðan af síður getum við sagt fyrir um hvernig baráttu sovéskrar alþýðu gegn eigin skrifræðisaðli er best borgið.

**rb**

# grunnur og yfirbygging?

Eins og segir í upphafi er fráleitt að telja yfirstéttina í Sovétríkjunum fulltrúa verkalýðsins (það gerir rb ekki heldur), og enginn getur heldur mælt í mót að hún sé til og vinnufólk sé undirokað. Engin töluleg rök ganga gegn þeim niðurstöðum.

rb reynir að leysa málið með því að segja (eins og satt er) að sovéskt þjóðfélag hafi sósíalíska undirstöðu **en ekki yfirbyggingu!** Málið er bara að slíkt getur átt sér stað í mjög skamma stund (nokkur ár), en í áratugum talið **hlýtur** yfirbygging þjóðfélags að samsvara grunninum — og öfugt. Efnaleg undirstaða fína fólksins eru ekki völdin ein, ástæður hóglífis þess eru ekki einhver laun; efnalegur grunnur þess eru samfélagstengsl og ákveðin afstaða til framleiðslutækjanna: **Yfirráð þeirra og stjórnun í þessu tilviki.** Það er andmarxískt að halda því fram að skrifræðishópur geti verið til lengi án þess að breyta samfélaginu í sína þágu (verða stétt) eða slíta yfirbygginguna úr sambandi við efnahagsgrunninn eða halda að breytingar í efnahagsgrunni láti stöðu stétta eða hlutverk samfélagshópa óhreyft.

Vera má að erfitt sé að ákveða hvort markaður eða áætlunarbúskapur hafi meiri áhrif á sovéskt efnahagslíf. Mikill áætlunarbúskapur og ríkisumsvif eru einkenni einokunarkapítalisma og spurningin um hvað stýri áætlanagerð í Sovétríkjunum útheimtir svar sem byggir í **efnahagsforsendum** stétta en ekki útskýringum eins og ,,tilraun til að fullnægja þörfum samfélagsins'' eða ,,valdagræðgi'' — eins og oft heyrist.

Svo má ekki gleyma ,,militaríseringu'' efnahagslífsins, sem stafar ekki af hræðslu við umheiminn eða slíku, heldur af því að Sovétríkin **eru hluti af heimsmarkaðskerfinu** og **verða** að berjast um öll efnaleg gæði við heimsvaldaríkin.

Meginspurningarnar í Sovétumræðunni eru þessar:

1. Tekur stjórnkerfi í S. mið af efnahagskerfinu og öfugt?
2. Hverjir ráða framleiðslutækjunum í S. og stjórnkerfinu?
3. Hvernig eignast menn sinn hlut í verðmætum ,,þjóðarbúsins''?
4. Hve mikil er markaðshlutdeildin í sovésku efnahagslífi og hvað stjórnar áætlanagerð?
5. Hver er skýringin á vígbúnaði S. og útþenslu?

Mér sýnast svör rb við þessum eða skyldum spurningum vera röng. Breytir þar engu þótt hann segi mínar skoðanir huglægar en sínar byggðar á athugunum og efnislegum staðreyndum. Það er túlkunarmátinn sem er ólíkur og niðurstöðurnar hafa gjörólíkar pólitískar afleiðingar.

/**A.T.G.**

**Ómar Harðarson:**

# Athugagreinar um sósíalisma, ríkisvald og gagnbyltingu

**Eitt mesta mein sósíalískrar hreyfingar á Íslandi hefur verið að henni hefur ekki tekist að sannfæra íslenska alþýðu um að sósíalismi sá sem hún stefnir að sé í neinu verulegu atriði frábrugðinn miðstjórnarsamfélögum þeim í austurvegi, þar sem byltingar undir forystu kommúnista hafa verið framkvæmdar. Raunar er það svo að íslenskum sósíalistum hefur ekki verið það neitt sérstakt kappsmál að sýna fram á sérstöðu sína. Vegsömun ,,fyrirmyndarinnar'', sovéskrar, kínverskrar, albanskrar eða kúbanskrar eftir atvikum hefur þvert á móti einkennt málflutning þeirra meira og minna.**

**Þeir eru þó margir íslensku sósíalistarnir sem reynt hafa að slíta af sér fjötra sovésku fyrirmyndarinnar (sem hinar tegundirnar rekja rætur sínar til). Það hefur þó síst verið með aðferðum fræðilegrar gagnrýni; tilfinningar, hugboð og draumsýnir hafa einkum verið lagðar til grundvallar. Stefnuskrá Alþýðubandalagsins er einna skýrast dæma um þetta. Þar er lagður til hliðar hinn gamli vísindalegi sósíalismi, sem lagði áherslu á stéttaralræði öreiganna, eignaupptöku o.fl. í þeim dúr. Í staðinn kemur draumurinn um réttlátara þjóðfélag, þingræðis- og samvinnufélagssósíalisma.**

**Íslenskt alþýðufólk hefur hvorugan boðskapinn gert að sínum. Það hefur séð í gegnum glansmyndirnar úr austurvegi og áttað sig á að þær eiga ekkert sameiginlegt með því þjóðfélagi sem það þarf sjálft að byggja upp á Íslandi framtíðarinnar. Það hefur einnig hunsað þingræðissósíalismann, ekki síst fyrir þá sök að hann er í raun marklaust orðagjálfur, sem ekki einu sinni boðberum hans dettur í hug að framfylgja.**

**Hér á eftir fara 18 athugagreinar um nokkur málefni, sem öll eru skyld og varða sósíalisma, ríkisvald og uppgjör við sovésku fyrirmyndina (og dætur hennar). Þessar greinar eru framlag mitt til umræðunnar um sósíalismann, auk kaflans um sósíalismann í Drögum að stefnuskrá Kommúnistasamtakanna, sem birtust í maíblaði Verkalýðsblaðsins 1981. Sá kafli hripaður upp af mér, þ.e. það sem eftir stóð eftir að ritstjórar draganna höfðu skorið hann niður við trog.**



**,,Ríkisvaldið tekur að sér sögulegt hlutverk auðvaldsins, iðnvæðir þjóðfélagið.'' Myndin er af löndun í kínverskri höfn.**

**1.** Er alræði öreiganna úrelt? Þessari spurningu hafa margir velt upp. Nú á síðari tímum má benda á evrópukómmúnistana. Lenín kvað upp úr með það á sínum tíma að afstaðan til alræðis öreiganna markaði skilin milli raunverulegs byltingarsinna og umbótasinna.

Milli auðvaldsþjóðfélags og kommúnisma verður að liggja tímabil, þegar einu þjóðfélagskerfi er breytt í annað. Um þetta eru nær allir marxistar sammála. Byltingarsinnar telja hins vegar að það hljóti að einkennast af alræði öreiganna, en evrópukommúnistar að það verði að einkennast af þingræði og lýðræði, þar sem enginn einn flokkur eða ein stétt fari með alræðisvald.

Skoðun mín er sú að án alræðis öreiganna verði ekki um nein umskipti til sósíalisma að ræða. Ef til vill skýrist þetta nánar ef athugað er hvað alræði öreiganna er. Hugtakið eitt og sér er bæði villandi og gjarnt á að standa af sér tilraunir til krufningar. Menn hafa enda sett samasemmerki milli þess og stalínísks einræðis.

**2.** Það er ríkjandi misskilningur að halda að alræði öreiganna jafngildi ríki verkalýðsins. Það er alrangt. Alræði öreiganna er pólitískt hugtak, táknar hugmyndalegt og pólitískt forræði verkalýðsins. Ríkið er hins vegar tæki þessa alræðis og er hægt að skipta á því og öðru eins og öðrum tækjum. Stalín gamli gerði ekki þennan greinarmun. Samruni ríkisvalds og kommúnistaflokks í Sovétríkjunum var alger. Jafnframt glataði verkalýðurinn pólitísku færi sínu á að stjórna og hafa eftirlit með ríkinu.

**3.** Þegar verkalýðurinn tekur völdin í einhverju þjóðfélagi grípur hann í fyrstu aðeins hin pólitísku (hernaðarlegu) völd. Þessi völd nýtir hann til að ná tökum á framleiðslutækjunum. Eignasvipting auðmanna felur þó ekki sjálfkrafa í sér að verkalýðurinn yfirtaki framleiðslutækin. Enn sem áður hafa sérfræðingar af ýmsu tagi með ráðstöfun þessara framleiðslutækja að gera, sérfræðingar sem menntaðir eru í anda gamla kerfisins. Í ríkisstofnunum sem fara með yfirumsjón þessara framleiðslutækja sitja svo kannske sérfræðingar og embættismannalið, sem í allri hugsun og starfi á meira sameiginlegt með hinum fyrri, sem þeir eiga þó að stjórna í nafni verkalýðsins. Móthverfan milli andlegrar og líkamlegrar vinnu snertir þetta einnig mjög.

Alræði öreiganna merkir því ekki síst frjálsa skipulagningu verkalýðsstéttarinnar í þeim tilgangi að tryggja völd sín og forræði, þrátt fyrir að framleiðslutækin séu enn beinlínis í höndum annarra aðila.

**4.** Alræði öreiganna merkir ekki veldi eins flokks, kommúnistaflokksins. Raunar er það svo að það liggur í eðli allra flokka að gera mistök. Það er því engin trygging fyrir góðri stefnu að margir séu um hana og helst enginn á móti. Það er hins vegar eðlilegt að allir hinir ólíku hópar verkalýðsstéttarinnar og nánustu bandamanna hennar geti bundist samtökum um ólík viðhorf og ólíkar stefnur. Það er nefnilega misskilningur að hægt sé að snúa aftur þegar búið er að svipta auðmennina eignum sínum eða að einhverjum ,,auðvaldssinnuðum'' flokki takist að afhenda þeim þær aftur. Aðlinum tókst það ekki einu sinni í Frakklandi eftir að bylt-

ingin mikla hafði endanlega verið brotin á bak aftur 1815 og var þó um mun minni eignaupptökur að ræða en felast í þjóðnýtingu verkalýðsbyltingarinnar.

Hins vegar er mögulegt, eins og dæmin sanna, að kommúnistaflokkurinn breytist úr verkalýðsflokki í flokk lítillar sérréttindastéttar og nái þannig að brjóta alræði verkalýðsins á bak aftur. Þeim mun auðveldara er slíkt ef tryggt er að fólkið hafi engin önnur meðöl en þann sama kommúnistaflokk til að snúast til varnar stéttarveldi sínu.

**5.** Alræði öreiganna og sósíalismanum, en svo hefur fyrra skeið kommúnismans gjarnan verið kallað, hefur oftsinnis verið blandað saman og eitt talið vera annað. Þetta er alvarleg villa, sem raunar er rauði þráðurinn í öllum skrifum Stalíns um uppbygginu sósíalismans. Tímabil alræðis öreiganna er ekki sósíalismi — síður en svo. Það er umbreytingarskeið milli kapítalisma og sósíalisma, sem einkennist af því að eignastéttir eru enn fyrir hendi og ríkisvaldið er tæki verkalýðsstéttarinnar til að svipta þær eigum sínum og fá þær í hendur þjóðfélagsins. Þegar tímabil alræðis öreiganna er lokið byrjar ríkisvaldið að deyja út. Eða eins og Engels orðar það svo fagurlega:

,,Í fyrsta sinn, sem ríkið gerir eitthvað á vegum þjóðfélagsheildarinnar, þ.e. slær eign sinni á framleiðslutækin í nafni hennar, innir það jafnframt af hendi síðasta hlutverk sitt sem slíkt. Afskiptum ríkisvaldsins af málefnum þjóðfélagsins verður ofauki á hverju sviðinu á fætur öðru og það lognast út af sjálfkrafa. Stjórnun málefna og stjórn á framleiðslunni kemur í stað yfirráða yfir mönnum. Ríkisvaldið verður ekki ,,afnumið'', heldur deyr það út.''

(Úrvrit M&E bls. 119)

**6.** Eign felur í sér andhverfu sína — eignaleysi. Eign auðherrans felur í sér eignaleysi verkamannsins.

Verkalýðsbyltingin sviptir auðherrana eignum sínum. Ríkisvaldið tekur þær yfir í nafni þjóðfélagsins. Ríki verkalýðsins samsamar sér hagsmunum þjóðfélagsins alls. Um fullkomna samsömun er þó ekki að ræða. Eign ríkisvaldsins í nafni þjóðfélagsins felur jafnframt í sér eignaleysi þjóðfélagsins.

Það er ekki nóg að svipta auðmennina eigunum og þjóðnýta þær í nafni þjóðfélagsins. Allt fyrra stig kommúnismans, sósíalisminn, felst m.a. í því að ganga skrefið til fulls og færa framleiðslutækin **í hendur** samfélagsins, þannig að það geti nýtt þau án milligöngu ríkisins, án þess að ríkisvald þurfi til að skikka menn til að skila jöfnu vinnuframlagi og sjá um að afurðunum sé úthlutað jafnt.

**7.** Stalín lagði fram kenninguna um eflingu ríkisvalds á tímabili sósíalismans. Hér var um að ræða nýja kenningu sem stangaðist á við fyrri kenningar, t.d. Engels í ,,Þróun sósíalismans...' og Lenins í ,,Ríki og bylting'', svo aðgengileg rit séu nefnd.

Hugmyndir kommúnista fram að því gerðu einmitt ráð fyrir því að þegar umskiptatímabilinu milli kapítalisma og kommúnisma lyki, lyki jafnframt hlutverki ríkisvaldsins á hverju sviðinu á fætur öðru. Það dæi endanlega út þegar efnaleg skilyrði væru orðin það háþróuð að ekki væri lengur móthverfa milli líkamlegrar og andlegrar vinnu og að ekki þyrfti lengur að dreifa afurðunum í samræmi við vinnuframlag hvers og eins.

Til útskýringar á kenningu sinni og til að láta hana ,,passa'' við framlag Marx, Engels og Lenins, sem Stalín hafði þá tekið í guðatölu, greip hann til dulspekinnar: ,,Visnun ríkisvaldsins felst í eflingu þess. Það er hið díalektíska lögmál.'' (Því miður eru bækur Stalíns komnar í óaðgengilegan kassa hjá mér, þannig að nánari staðfæring þessarar tilvitnunar verður að bíða).

,,Framlag'' Stalíns til fræðikenningarinnar verður hins vegar skiljanlegra, þegar tekið er tillit til þess að hann gerði aldrei grein fyrir almennum sérkennum leiðarinnar til sósíalisma í vanþróuðu landi. Marxistar höfðu hins vegar áður gengið út frá verkalýðsbyltingu í þróuðum auðvaldslöndum.

Raunar má sjá þess mörg dæmi í skrifum Stalíns að hann hafi talið rússneskan kapítalisma háþróaðan (!).

**8.** Löndum heims má skipta í tvo flokka. Þau (fáu) sem iðnvæddust að tilstuðlan þróttmikillar borgarastéttar í andstöðu við miðaldaskipan lénsveldisins (til þessa hóps heyra þó a.m.k. 4 undantekningar, Bandaríkin, Kanada, Ástralía og Japan) og hin (mörgu) sem iðnvæddust (eða geta ekki iðnvæðst nema) fyrir tilstuðlan miðstjórnar í einu eða öðru formi, þó aðallega ríkisvalds. Meginástæðan fyrir tilvist síðari flokksins er þróun þess fyrri, sem í krafti forskots síns tókst að ná yfirráðum yfir stærsta hluta jarðkúlunnar, rupla og ræna og brjóta niður samfélagsstrúktúr í flestum löndum heims. Iðnvæðing síðari flokksins verður og varð að fara fram í meiri eða minni andstöðu við heimsvaldaríkin fáu.

Það virðist ekki margt sameiginlegt með t.d. Íslandi og Tansaníu. Bæði þessi lönd heyra þó til síðari flokknum. Tansaníumenn reyna nú að iðnvæðast að frumkvæði ríkisvaldsins með áherslu á samvinnufélagsskap en með heimsvaldaauðmagnið á hælum sér. Íslendingar hafa iðnvæðst. Fyrir þeirri iðnvæðingu fór ríkisvaldið (nýsköpunartogarar, ríkisbankar, orkuflun, ríkisverksmiðjur, samningar við erl. fjölþjóðahringi, svo nokkur dæmi séu nefnd), auk þess sem samvinnuhreyfingin hefur gengt lykilhlutverki í umbreytingu landbúnaðarþjóðfélagsins í iðnaðarþjóðfélag. Þegar Einar Olgeirsson talaði um ósjálfstæða íslenska borgarastétt, sem þyrfti að hafa vit fyrir þá skaut hann ekki ýkja langt frá marki.

Þjóðfélagsbylting undir forystu kommúnista hefur enn ekki verið framkvæmd annars staðar en í vanþróuðu landi sem heyrir til síðari flokknum.

Þar sem sósíalisma verður ekki komið á nema ákveðin skilyrði sem auðvaldsþjóðfélagið hefur skapað séu fyrir hendi verður að skapa þessi skilyrði á annan hátt í slíkum löndum.

**9.** Vanþróað land skilar verkalýðsbyltingunni landi þar sem landbúnaður og hráefnavinnsla er meginstarfsemi þjóðarbúskaparins. Þjóðnýting jarðnæðis og fyrirtækja í slíku landi er tiltölulega lítið mál. Eignastéttirnar eru litlar þ.e. hinar kapítalísku og létt verk og löðurmannlegt að taka af þeim eignirnar. Hins vegar er verkalýðsstéttin lítil, fátækir bændur og miðlungsbændur geysifjölmennir og sósíalísku skipulagi ekki komið á í landbúnaði né iðnaði nema eftir mjög langan tíma. Menntunarleysi og ólæsi er landlægt vandamál.

Við slíkar aðstæður tekur ríkisvaldið að sér sögulegt hlutverk auðvaldsins, iðnvæðir þjóðfélagið og umbreytir landbúnaðinum úr sjálfsþurftabúskap í félagslega atvinnustarfsemi á borð við iðnaðinn.

Það er augljóst að við slíkar aðstæður verður spámannlegum orðum Engels, sem vitnað var í hér að framan (gr. 6) ekki hrundið í framkvæmd. Þjóðnýting atvinnutækjanna leiðir ekki til visnunar ríkisvaldsins, heldur þvert á móti. Ríkisvaldið sem forystuafl í öllu þjóðlífinu eflist um ókominn tíma.

**10.** Í ljósi þessa verður kannske auðveldara að skilja dulspeki Stalíns, sem áður var visað til. Hins vegar verður jafnframt ljóst að efling ríkisvaldsins við þessar aðstæður á ekkert skylt við ,,visnun'' þess. Slíkt iðnvæðingartímabil á raunar ekkert skylt við sósíalismann, að öðru leyti en því að hafi verkalýðurinn raunverulega töglin og hagldirnar, þjóni ríkisvaldið honum en ekki hann því, þá er landið **á leið til** sósíalisma.

**11.** Í vanþróuðu landi, eins og Rússlandi fyrir byltingu, Kína o.fl., o.fl. hefur þjóðnýting framleiðslutækja ekki það í för með sér að þau komist í hendur samfélagsins. Enn um sinn þarf takmarkaður hluti samfélagsins að fara með hin efnahagslegu völd, bæði til að iðnvæða þjóðfélagsins geti átt sér stað og til þess að allsherjarmenntun verði. Ríkiseign yið slíkar aðstæður er áfram **séreign.** Alræði öreiganna er nauðsynlegt til að koma í veg fyrir að þessi sérstaki hlut samfélagsins (embættismenn, forstjórar og tæknimenn, sem vegna sérstöðu sinna þarf að launa með sérréttindum) geti notað efnahagsleg völd sín gegn alþýðunni, náð pólitískum völdum.

Ríkiseign hefur verið ranglega blandað saman við sósíalisma. Alræði öreiganna í Sovétríkjunum var ranglega bendlað við skriffinnskubákn-ið. Í stað alræðis öreiganna kom alræði skriffinnskubáknsins, sem síðar þróaðist upp í alræði sérskrárinnar.

Það er einmitt við slíkar aðstæður sem sérstaklega er nauðsynlegt að pólitísk menntun og árvekni alþýðunnar sé í lagi. Menningarbyltingin í Kína var, hvernig svo sem hún þróaðist, tilraun til slíks. Kannske það sé þess vegna sem Kína er enn ekki komið í alveg sömu stöðu og Sovétríkin — ennþá.

**12.** Kenningar marxleninista um gagnbyltinguna í Sovétríkjunum standa afskaplega veikum fótum. Nils Holmberg er sá sem skrifað hefur **einna** ítarlegast og rökfastast **um** þá gagnbyltingu í riti sínu ,,Friðsamleg gagnbylting''.

Í stuttu máli gengur þessi kenning út frá því að einn maður, Stalín, hafi getað haldið niðri gagnbyltingu endurskoðunarsinna — nýrrar yfirstéttar — allan valdatíma sinn. Við dauða hans losnaði skrifræðið hins vegar undan klafa óttans og tókst að hefja endurskipun þjóðfélagsins í átt til einhvers konar ríkiskapítalisma.

Þessi kenning setur einn ,,yfirburðamann'' — Stalín — í stað heillar stéttar. Þegar af þeirri ástæðu getur hún ekki verið rétt. Orsakir núverandi stöðu Sovétríkjanna og valda sérskrárinnar þarf rakti ég stuttlega í undanfarandi greinum.

Spurningin er: Hvers konar þjóðfélag eru Sovétríki nútímans?

Þau eru ekki sósíalísk, það hef ég rakið. Þau einkennast heldur ekki af alræði öreiganna, það hef ég líka rakið; þau eru því ekki á umbreytingarskeiði milli kapítalisma og sósíalisma.

Eru þau þá kapítalísk, eða einhver ný áður óuppgötvuð samfélagsgerð?

**13.** Auðhyggja, auðvald, öðru nafni kapítalismi, er sögulega ákvörðuð þjóðfélagsskipan, sprottin fram við ákveðin söguleg skilyrði undir forystu borgarastéttarinnar. Ef um er að ræða gagnbyltingu í landi sem komið er, langt eða stutt, á veg til sósíalisma getur ekki orðið um algert afturhvarf að ræða til fyrri auðvaldsháttа, að ekki sé talað um ef þeir auðvaldsherrar hafa verið vanburðugir í upphafi. Áður var minnst á erfiðleika aðalsins í Frakklandi að fá eigur sínar til baka eftir innreið hans 1815. Jafnvel þá reyndist ríkisvaldinu um megn að greiða skaðabætur sem aðlinum voru ákvarðaðar fyrir ,,ólöglega'' eignaupptöku (sjá Jón Guðnason, Mannkynssaga 1789—1848 bls. 149). Hugsum okkur að kapítalismi hafi komist á í Sovétríkjunum einhvern tímann á árabilinu 1930—1983, t.d. á 6. áratugnum.

Þá er í fyrsta lagi ljóst að engin auðvaldsstétt var til til að endurheimta eignir sínar, framleiðslutækin voru nær öll byggð upp af ríkisvaldinu. Það var heldur ekki hægt að skipta upp atvinnufyrirtækjunum til neinna nýrra auðherra, því engin í væntanleger og nógu efnaður auðherra var til sem keypt gæti atvinnutækin. Svipuðu máli gegnir um landbúnaðinn, a.m.k. í Sovétríkjunum. Hins vegar má benda á að í Póllandi fengu bændurnir jarðir sínar fljótlega aftur, eftir að samyrkjuvæðingin í landbúnaðinum mistókst.

Það er því augljóst að ef leita á að kapítalisma í Sovétríkjum nútímans er hans vart að leita í einkaauðmagni eða markaðsþjóðfélagi á borð við vesturlönd. Borgarastétt í mynd vesturlenskrar er heldur vart að finna.

**14.** Á grundvelli ofangreindrar röksemdafærslu er hægt að fullyrða að Sovétríki nútímans eru ekki þjóðfélag sem hægt er að kalla með réttu auðvaldsþjóðfélag, enda eru þau sögulega ákvörðuð á annan hátt.

En þar með er ekki sagt að auðmagnsaðstæður ríki ekki í Sovétríkjunum.

Mér hefur sýnst nokkuð skorta á skilning á hvað **auðmagn** merki í raun og veru. Einföldun fræðikenningarinnar sem stundum er heppileg til alþýðlegrar útskýringar hefur á stundum orðið að fræðikenningunni sjálfri. Eftirfarandi tilvitnun í Karl Marx kemst beint að innsta eðli auðmagnsins:

,,En auðmagnið hefur aðeins eina lífshvöt, tilhneiginguna til að skapa gildi og gildisauka, að láta fastaþátt sinn, framleiðslutækin, gleypa mesta mögulega magn gildisauka. Auðmagn er dauð vinna, sem eins og vampýra, lifir aðeins á því að sjúga lifandi vinnu og lifir því betur því meiri vinnu sem það sýgur.'' (Auðmagnið, 1. bindi, X. kafli, 1. hluti)

Forsenda auðmagns er sú að auðæfin, framleiðslutækin, séu aðskilin frá vinnunni. Þessa forsendu höfum við í Sovétríkjunum.

En auðmagn er ekki til sem slíkt nema það skapi gildi og gildisauka. Gildi og gildisauki er hins vegar ekki til án þess að um vöru sé að ræða, þ.e. afurð sem framleiðendurnir nýtir ekki sjálfur heldur selur. Þar af leiðandi er ekki hægt að tala um auðmagn, nema um sé að ræða markað, þar sem gildin eru raungerð. Eða hvað? Þannig hafa andstæðingar kenningarinnar um auðmagn í Sovétríkjunum rökleitt.

**15.** Þegar Marx greinir vöruna og sérkenni hennar kemur honum ekki í hug að gera tilvist markaðar að forsendu hennar. ,,Markaður'' er enda aðeins safnhugtak fyrir margs konar möguleika á að skipta vörum, allt frá torgmarkaði grænmetissalans til símtóla fjölþjóðafyrirtækisins.

,,Hvaðan kemur þá hið torskilda eðli vinnuafurðarinnar jafnskjótt og hún tekur á sig form vörunnar? Greinilega þetta form sjálft. Jafngildi hvers konar mannlegrar vinnu kemur efnislega fram í því að afurðir mannanna eru allar jafn verðmætar; notkun vinnuafls mælt í tímalengd vinnunnar tekur á sig form gildismagns vinnuafurðanna; og loks, gagnkvæm tengsl fram-

Næsta síða

leiðendanna, sem félagslegt eðli vinnu þeirra kemur fram í, taka á sig form félagslegra tengsla milli afurða.

Varan er því leyndardómsfull einfaldlega vegna þess að í henni birtist mönnum félagslegt eðli vinnu sinnar sem efnislegur eiginleiki stimplaður á afurð þeirrar sömu vinnu; vegna þess að afstaða framleiðendanna til heildarsummu eigin vinnu birtist þeim sem félagsleg tengsl, ekki milli þeirra sjálfra, heldur milli vinnuafurða þeirra. Þetta er ástæða þess að vinnuafurðir verða vörur, félagslegir hlutir með eiginleika sem samtímis eru skynjanlegir og óskynjanlegir skynfærunum." (Auðmagnið, 1. bindi, 1. kafli, 4. hluti. [Ath. þessi sami kafli er þýddur í úrvalsritum M&E, en óskiljanlega (Blætiseðli vörunnar og leyndardómur þess)])

**16.** Það sem Marx kallar „blætiseðli vörunnar" kemur einmitt glöggt fram í Sovétríkjunum. Í hinum svokallaða áætlanabúskap fara skipti mismunandi vinnuafurða fram samkvæmt fyrirframgerðum áætlunum. Tilfærslur og millifærslur með stjórnvaldsskipunum koma í stað hins kapítalíska markaðar.

En á því er í raun enginn grundvallarmunur. Á líkan hátt og félagsleg tengsl afurðanna verða birtingarmynd félagslegra tengsla manna í auðvaldsþjóðfélaginu, virðist mönnum sem félagsleg tengsl í Sovétríkjunum birtist í annarri gerð vörutengsla, áætlunarbúskapnum.

Einmitt þessi sérstaka tegund skipta á vörum, áætlunarbúskapurinn, hefur valdið mönnum miklum heilabrotum.

Þeim hefur sést yfir hið sanna eðli vinnuafurðanna við slíka búskaparhætti, ekki skilist að skipti afurðanna eru félagsleg. Því hafa þeir hafnað því að afurðirnar hafi gildi sem mælanlegt sé í **vinnutíma.** (Þessi höfnun stafar af þeirri þörf Stalínsstjórnarfarsins að sýna fram á „fræðilega" að gildisauki sé ekki skapaður í fyrirmyndarríkinu, því geti enginn verið arðrændur.) Þessi blinda hefur svo leitt til hvers konar hundakúnsta með **skiptahlutfall** mismunandi vara — með hrikalegum afleiðingum. Slíkar hundakúnstir leiddu m.a. til uppreisnarástands í Póllandi þrívegis á tíu árum og áttu m.a. þátt í tilraunum til umbóta á efnahagskerfinu í Tékkóslóvakíu 1968.

Þjóðarbúskapur, sem einkennist af vöruframleiðslu, **jafnframt því sem framleiðslutækin og auðæfin eru ekki í eigu framleiðendanna sjálfra,** er þjóðarbúskapur sem einkennist af tengslum launavinnu og auðmagns.



**Höfundi finnst lítið til Stalíns koma.**

**17.** Á grundvelli þess sem hér hefur verið sagt tel ég mig geta fullyrt að í Sovétríkjunum ríki auðmagnsafstæður, en einungis í grundvallaratriðum. Að öðru leyti en þessu eru Sovétríkin afar frábrugðin ættingjum sínum í vestri. Stimpill sá sem verkalýðsbyltingin setti á þau verður aldrei afmáður, eins og vikið var að hér á undan (gr. 14).

Í fyrsta lagi er auðmagnið í Sovétríkjunum án eigenda. Valdahópurinn í Sovét, sérskráin svokallaða sem gert var grein fyrir í síðasta tbl. VB, er ekki eigandi framleiðslutækjanna. Hann fer hins vegar með óskorað yfirráð yfir þeim, en eingöngu sameiginlega.

Í öðru lagi getur eina eignastétt landsins, bændastéttin, aðeins notið eignar sinnar sameiginlega gegnum samyrkjubúin, auk þess sem hún er raunverulega í ánauð án ferðafrelsis og án frelsis til að taka sig upp. Valdastéttin sér til þess.

Í þriðja lagi er verkalýðsstéttin í Sovétríkjunum í þeirri stöðu að vera svipt pólitískum völdum, svipt öllum réttindum sem jafnvel verkalýðsstétt í fasískum löndum hefur — á sama tíma sem öll þjóðfélagsskipanin býður þess fullþroskuð að taka við völdum hennar.

Það er útilokað að núverandi auðmagnsafstæður í Sovétríkjunum geti staðið til lengdar. Samfélagslegt eðli framleiðslunnar þar um slóðir samfara algeru eignaleysi verkalýðsins er slíkt, að sérhver pólitísk vakning verkalýðsstéttarinnar, **í hvaða mæli sem er,** getur kollvarpað samfélagsgerðinni. Það var ekki að ástæðulausu sem austurevrópska sérréttinda- og valdastéttin grípur til örþrifaráða hvenær sem slíkt verður, s.s. í Berlín 1953, Ungverjalandi 1956, Tékkóslóvakíu 1968 og Póllandi 1956, 1970, 1976 og 1982.

**18.** Það skal tekið fram, svona undir lokin, að það sem ég hef sett fram í greinum þessum ber ekki að skoða sem stórasannleik, sem mér hefur tekist að festa hönd á. Ég býst við að enginn lesandi geri ráð fyrir því fremur en ég. Hér er fremur um að ræða tilgátu sem hægt væri (og ætti) að fylgja eftir en fullmótaða kenningu sem grundvölluð er á nákvæmum athugunum. Vissulega hefði verið gaman að ganga lengra, en bæði var að Verkalýðsblaðið er plásslítið blað — og því plássminna að það á aðeins eitt tölublað eftir ólifað þegar þetta er ritað.

Ég tel þó tilgátu minni það til ágætis að hún heldur sig við grundvallaratriði byltingarsinnaðs marxisma, hún útskýrir muninn á sósíalískri þróun í vanþróuðu og þróuðu auðvaldslandi og hún útskýrir fráhvarf Sovétríkjanna frá sósíalísku brautinni í rökréttu samhengi við fyrri atriðin tvö.

Eflaust má tína til margar mótbárur gegn tilgátu minni, og er það vel því án þeirra verður hún ekki prófuð. En engri tilgátu má hafna óprófaðri né gleypa við rannsóknarniðurstöðum hráum. Í sósíalískum vísindum gildir það sama og í öðrum vísindagreinum og fram kemur í málsháttunum:

„Enginn trúir tilgátunni nema tilgátuhöfundurinn, hins vegar trúa allir rannsóknarniðurstöðunum nema rannsóknarmaðurinn."

**óhs.**

# Alþýðubandalagið er enginn engill!

**Í 2 greinum í Verkalýðsblaðinu (7. og 9—10. tbl.) hefur RB fjallað um Alþýðubandalagið og kveður þar við nokkuð vinsamlegri tón en áður hefur tíðkast á þeim vettvangi og er það í sjálfu sér ágætt. Greinarnar eru vel skrifaðar og gefa tilefni til málefnalegrar umræðu.**

**Ég ætla hér að taka til umfjöllunar nokkur atriði úr seinni greininni, sem ég felli mig ekki alls kostar við.**

## Tvenns konar umbótabarátta

Ég tek undir það mat rb á gagnrýni okkar á AB, að þar hafi um of verið lögð áhersla á dugleysi AB í kjarabaráttunni, í þröngum skilningi þess orðs, en hefðum mátt gagnrýna meira dugleysi þess á hugmyndalega sviðinu: Við að móta og útbreiða byltingarsinnaða stefnu og búa verkalýð og alþýðu undir að stjórna þjóðfélaginu. Það á sér líklega skýringar í kjarahyggju og flokkseiginhagsmunasemi í okkar eigin röðum (e.t.v. áhrif frá AB??).

Rb lýsir vel umbótabaráttu AB, sem takmarkast við að rimpa fyrir götin á hinni gatslitnu auðvaldsflík. Ég álít, að umbótabarátta okkar hafi verið annars eðlis.

Ég samþykki ekki, að það sé fáránlegt að sósíalísk forystusamtök séu róttækari en þorri verkamanna í kjarabaráttunni. Nú á tímum afvegaleiddrar verkalýðshreyfingar er þörf á því að vinna ýmsum róttækum kjarakröfum fylgi og veita aðhald þeirri gífurlegu áróðursmaskínu, sem er samtaka í því að halda aftur af baráttu verkafólks og kæfa róttækar kröfur í fæðingu.

Margar umbóta- og kjarakröfur, sem EIK(m-l) og KSML héldu á lofti voru það róttækar, að þær hefðu aldrei náðst fram að fullu innan auðvaldskerfisins. T.d. voru félagar EIK(m-l) klárir á því, að krafa um **lífvænleg laun** fyrir 8 stunda vinnudag væri í raun krafa um sósíalisma og fóru ekki dult með það. Kröfur KS um raunverulegt lýðræði eru tvímælalaust jafnframt kröfur um sósíalískt skipulag. Það má varast að draga alla umbótabaráttu í einn dilk.

## Var skipulagning vinstrihópanna mistök?

Rb segir orðrétt: „Það voru alvarleg mistök að mínu mati þegar róttæk vinstri hreyfing fyrir 10—15 árum neitaði að líta á AB sem starfsvettvang, heldur gerði margar og ósamstæðar tilraunir til að skipuleggja sig utan þess. Eins og sjá má af stefnuskrá AB, sem samin var á þessum árum, átti sósíalísk barátta þá miklu meiri hljómgrunn innan AB."

Sá óharðnaði æskulýður, sem skipulagði sig í vinstri hópunum, hefði að mínu mati ekki komist upp með að móta byltingarsinnaða stefnu innan flokks, sem hafði í áratugi haft það fyrir höfuðverkefni að lappa upp á auðvaldskerfið. Hin óþroskaða byltingarsinnaða vitund okkar hefði hlotið að kafna í návist reyndra atvinnukjaftaska Alþýðubandalagsins. Fjarlægð okkar frá þessari heilsugæslustöð auðvaldsins var líkast til forsenda þess að það tókst að gróðursetja nýja trjátegund í íslenska stjórnmálaskóginum, sem vafalaust hefur tafið för AB til hægri.

Er ekki hugsanlegt, að róttækni AB upp úr 1970, sem rb telur vera rök gegn sjálfstæðri skipulagningu vinstri hópa utan þess hafi að nokkrum hluta verið afleiðing sjálfstæðrar skipulagningar þeirra og að þessi hljómgrunnur sósíalískrar baráttu innan veggja AB hafi aldrei verið annað en taktískt plat? Hver getur svarað því?

Þess ber að minnast, að fjöldi ungs, róttæks fólks gekk í AB um og upp úr 1970, margir e.t.v. róttækari og meðvitaðri en þeir sem á sama tíma gengu til liðs við KSML og EIK (m-l). Það þyrfti að meta hvernig pólitísk þroskaskilyrði þessu fólki voru búin innan AB og hver hafi orðið árangur starfs þessa fólks. Var fræðsla og umræða betri þar en í samtökum maóista og trotskista?

Hvað aðhefst þetta fólk nú? Því svarar rb: „Á hinn bóginn hefur þorri félaga innan AB annað hvort gefist upp á baráttu fyrir róttækri stefnu eða orðið samdauna umbótastefnunni." Þetta hefur breytt miklu, þótt nokkrir tugir einstaklinga til viðbótar hefðu gengið í AB upp úr 1970?

Ég býst við að allir félagar í KS séu sammála rb um það að við hefðum átt að hafa meira samstarf og heyja málefnalegri baráttu gegn AB, ekki síst í návígi (á fundum, í hópstarfi o.þ.h.). Starfsstíll AB hefur þó torveldað slíkt jafnvel enn meira en gamli starfsstíllinn okkar. Okkar samtök buðu félögum AB oft til kappræðna og umræðna um ýmis mál og þeir urðu ört við þannig bón. Ég veit hins vegar ekkert dæmi þess að flokkurinn AB hafi boðið félögum í samtökum maóista til málefnalegrar umræðu. Þá sjaldan að Þjóðviljinn hafi eytt orðum á starf okkar og stefnu, hefur það verið á formi skítkasts og útúrsnúninga. Á þessu varð þó ánægjuleg undantekning um daginn, þegar vitnað var í skrif Ara Trausta án þess að afskræma þau, vonandi fáum við að sjá þannig viðbrögð oftar í Þjóðviljanum framvegis.

## Of seint að hefja samstarf?

Rb segir: „Samtök byltingarsinna hafa riðlast og hugmyndafræðilegur og skipulagslegur kraftur þeirra er hverfandi þannig að þótt þeir gengju nú í AB eru þeir illa undir baráttu fyrir byltingarsinnuðum hugmyndum búnir."

Það er ljóst, að skipulagslegur kraftur og afkastamáttur maóista er vart svipur hjá sjón. Hins vegar álít ég, að þrátt fyrir fámenni sé hugmyndafræðilegi krafturinn með besta móti, sé hann metinn eftir gæðum en ekki magni. Því held ég að við séum nú betur búin til náins samstarfs eða jafnvel sameiningar við AB (eða hugsanlegt bandalag jafnaðarmanna) en við vorum fyrir áratug og minni líkur á að vöIturum í forystu flokksins takist að jafna út öll hugmyndaleg sérkenni og nýmæli, sem mótast hafa í áratugs stjórnmálastarfi okkar.

Mér finnst rb ofmeta lýðræðislegt yfirbragð AB og gera of lítið úr hinum gerræðislega veruleika, sem hefur dulist bak við það. Mér geðjast betur að þeirri áherslu í inntak og dapurlegar staðreyndir, sem einkennir grein bþ á baksíðu Neista 10. tbl. '82. Hins vegar vona ég að AB sé að átta sig og að muni brátt sýna að það sé raunverulegt bandalag.

**ÞÓÁ**

# Aumingja Guðmundur!

**Það er dálítið óvenjulegt að háskólamenntaðir menn taki til við venjuleg verkamannastörf eins og Guðmundur Sæmundsson gerði fyrir fáeinum árum. Tilgangur Guðmundar var svo sem ljós: Að efla baráttu verkalýðshreyfingarinnar, auka virkni hins almenna félaga o.s.frv.**

**Guðmundur hefur brotið ýmsar hefðir í þessu starfi sínu og notað margar óvenjulegar aðferðir til þess að hafa áhrif. Eftirminnilegast er það þegar hann bauð sig fram til forseta ASÍ — sjálfur — og tilkynnti framboðið í blaðagrein ef ég man rétt. Kænir valdapotarar láta ganga á eftir sér, ,,láta undan þrýstingi'', er það kallað. Þessi aðferð sem fyrst vakti tortryggni hjá sumum félögum hans í maóistahreyfingunni hreif. Guðmundur fékk aðgang að fjölmiðlum með gagnrýni sína sem hann flutti á þinginu en ella hefði hún lítið heyrst lengra. Og sjálfsagt hafa þingfulltrúar hlustað betur á hann af því að hann var í framboði.**

**Nú er Guðmundur Sæmundsson hættur í öskunni og farinn að skrifa bækur. Enn vekur hann athygli. Bókaforlag nokkurt hættir við að gefa út bók eftir hann um lýðræðisskort í verkalýðshreyfingunni, bókin kemst á lista yfir söluhæstu bækur og meira að segja ritstjóri Þjóðviljans neyðist til að eyða blautu púðri á hana.**

## Bestu kaflarnir

Einkum eru það kaflarnir um það hvernig verkalýðsforingjar komast til valda í félögum sínum, halda þeim og klifra áfram sem er sérstakur fengur að. Um þetta hefur lítið verið skrifað og ég er ekki frá því að þetta form, að skrifa þvert um hug sér, sé rétta leiðin til að lýsa aðferðum verkalýðsforingja. Lýsa þeim eins og þær séu til fyrirmyndar og reyna að afhjúpa þær þannig. Gallinn er bara sá að ég veit alls ekki hvað þetta skilur eftir. Þetta er þó góð tilraun og í öllu falli stór áfangi. ,,Fræðilegri'' úttekt hefði á þessu stigi málsins sennilega ekki skilað meiru, ekki einu sinni þeim sem vilja huga að verkalýðshreyfingunni út frá einhverjum akademískum sjónarmiðum. Hér er nauðsynlegt að taka fram að ég á fyrst og fremst við 1., 3., 4., 5. og 7. kafla í þessu tilliti. Fræðileg úttekt í samtímanum á apparötum sem ganga áfram á því að enginn er nógu þroskaður eða úthaldsmikill til að hafa áhrif, hvað þá meira, er nánast ómöguleg.

## Veikleikar

E.t.v. er öll bókin of einföld að því leyti að hún einblínir á þá hlið að komið sé í veg fyrir virkni fólksins. Málið er reyndar flóknara en svo að öllu sé stýrt af samsæri íslenskra og erlendra auðhringa gegnum valdastofnanir stjórnmálaflokkanna. Almennur félagslegur vanþroski, ekki síst verkalýðsstéttarinnar er til staðar og fólk er ekki spennt fyrir félagsstarfi, allra síst því sem lýtur að einhvers konar pólitík. Samkeppnishugsunarhátturinn og lífsgæðakapphlaupið eiga sterk ítök í verkalýðnum ekki síður en öðru fólki.

Ég tel að Guðmundur hefði átt að sleppa seinni köflunum (um ríkisvaldið, SÍS o.fl.) og leggja meiri alúð við kaflana um verkalýðshreyfinguna, e.t.v. Vinnuveitendasambandið og Vinnumálasambandið, samskipti verkalýðsforingja og atvinnurekenda og aðild verkalýðsforingja að atvinnurekstri og síðast en ekki síst **meiri kennslu í að verjast óróaöflum.** Slík krafa er þó fyllilega óraunsæ því að ef til væru slíkar leiðir sem Guðmundur gæti kennt að verjast hlyti hann að hafa notað þær í verkalýðshreyfingunni. Í staðinn leiðist Guðmundur út í að ,,endurskrifa Baráttuleið alþýðunnar'' (Stefnuskrá EIK(m-l) frá 1974 og 1976) eins og einhver orðaði það í mín eyru. Ég held t.d. að það sé alrangt hjá Guðmundi að maóistar séu hættulegri en önnur ,,öfgaöfl'' (bls. 90) nema Guðmundur eigi við eigin árangur. Það er þó í mótsögn við lýsingu hans á starfsaðferðum maóista að Guðmundur faldi sig ekki beinlínis fyrir verkalýðsforystunni í öskutunnunum.

Ég sé ekki ástæðu til að leita uppi marga einstaka galla — en mér eins og finnst að Guðmundur hefði mátt umskrifa textann nokkrum sinnum. Hann hefði þá orðið markvissari og jafnvel listrænni. Einstök dæmi um þetta treysti ég mér ekki til að nefna enda er þetta ekki mín bók og ég gæti ekki einu sinni umskrifað hana af viti, hvað þá samið betri bók. Mér skilst hins vegar að flestir bestu rithöfundar margskrifi sínar bestu bækur og þessi bók hefði alveg mátt vera enn þá betri og er þá ekki þar með sagt slæm.

## Góð kennslubók?

Bók Guðmundar Sæmundssonar um verkalýðsforystuna er í 14 köflum og byggð upp sem kennslubók í að verða verkalýðsforingi. Uppsetning og form eru nýstárleg af bók sem hefur þann tilgang að vera pólitískt áróðursrit. Formbreytingin á pólitíska áróðursritinu er að mínu viti vel heppnuð nýlunda.

Sjálfur ,,kennslutextinn'' er stuttur sem vera ber, töflur og aðrar upplýsingar eru í rammagreinum og bókin er með mörgum myndum. Mesta athygli vekja húsamyndir (hús sem verkalýðsforingjar og atvinnurekendur búa í) sem hefðu fyrir mína parta mátt vera fleiri og leiknar myndir sem margar eru stórsnjallar. Allt þetta er til fyrirmyndar hvað snertir kennslubók.

Kannski er það frámunalega heimskulegt af mér að taka formið svo hátíðlega að fara að gagnrýna bókina sem kennslubók. Mér hefði hins vegar ekki fundist það sniðugt að kalla bókina kennslubók nema af því að hún reynir að vera það. Massífur texti og þurr á slíkri bók hefði gert hana hlægilega fyrir þá sök eina að þykjast vera kennslubók. Og um margt er þessi kennslubók meðal hinna nútímalegustu í röð kennslubóka (t.d. leiknu myndirnar).

Hún er hins vegar skrifuð í öðrum kennslufræðilegum anda en ég aðhyllist og mun það óhjákvæmilegt. Hún er uppfull af Stórasannleik (,,Þér mun óhætt að trúa þessu — þetta er byggt á langri reynslu''), ítroðsluanda og ,,haldgóðum upplýsingum um staðreyndir'' a la Mogginn. Þessi andi er í fullu samræmi við lýðræðisskortinn í verkalýðshreyfingunni.

Verkefni eru í lok hvers kafla eins og vera ber í kennslubók? Sum þeirra eru þó bara brandarar (dæmi bls. 136, 1. spurning) en önnur eru í góðu samræmi við textann til að nemendur tileinki sér efnið betur (dæmi bls. 136, 2. sp. og 2. og 3. sp. bls. 20). Mér sýnist hins vegar að stundum vanti upplýsingar eins og líka kemur fyrir höfunda alvörukennslubóka (dæmi: sp. 2, bls. 54).

Myndirnar eru stundum notaðar til að ýkja, t.d. myndin á bls. 83 þar sem verkalýðsforingi er að ,,hía'' á konu sem er að gagnrýna hann. Myndin á að sýna það sem frá segir í textanum á bls. 82, að gera grín að konum.




**Myndin á að sýna það sem frá segir í textanum á bls. 82, að gera grín að konum.**

## Stefnubreyting Guðmundar

Fyrir u.þ.b. 1½ ári deildu Guðmundur og Arnór Sighvatsson í Verkalýðsblaðinu um hvar þungamiðja starfs kommúnista ætti að liggja; hvort það væri í hinni daglegu verkalýðsbaráttu eða á hugmyndafræðisviðinu. Ef mig misminnir ekki vildi Guðmundur taka kjarabaráttuna og fagfélagastarf fram yfir en taldi hugmyndafræðilegu baráttuna minna virði og vildi setja Marx og aðrar bækur upp í hillu.

Nú er Guðmundur kominn í hugmyndafræðibaráttuna með bók sem við skulum ekki setja upp í hillu nema tryggt sé að hægt sé að grípa hana með, t.d. á fundi. VELKOMINN! Batnandi manni er best að lifa — en ég vildi þó gjarna sjá mat Guðmundar Sæmundssonar á árangri sínum í verkalýðshreyfingunni einhvers staðar á prenti. Mér finnst alls ekki duga að móralisera út frá kjaftasögum sem gengu um hann á Akureyri í kosningabaráttu í fyrra eða var það kannski helst vegna þeirra sem Guðmundur hætti í öskunni og fór að skrifa bók? Raunar minnir mig að kjaftasögur gengju líka í kosningabaráttu Jóns Helgasonar og Jóns Ásgeirssonar í Einingu fyrir nokkrum árum. Og í flestum kosningum ganga fleiri og færri kjaftasögur. Þær eru bara yfirleitt ekki settar á prent af þeim sem þær fjalla um. Hér brýtur Guðmundur hefð.

Kjaftasögukaflinn hefur líka kennslufræðilegan kost. Hann sýnir dæmi um aðferðir verkalýðsforingjans. Hann er líka persónulegur og Guðmundur er óhræddur við að brjóta þá hvimleiðu hefð **að þykjast vera hógvær og lítillátur.**

Rvík 8.12. 1982. iáj

Framhald af baksíðu

# Vinstri hreyfingin...

við aftur og vörum BSK við sjálfsblekkingum: —Takið upp alvarlegar viðræður við Kommúnistasamtökin um eflingu marx-lenínískrar stefnu á Íslandi.

## Kommúnistasamtökin

Virkur kjarni Kommúnistasamtakanna er nú orðinn mjög lítill, en óvirkir fyrrum félagar margir og stuðningsmenn sömuleiðis. Samtökin hafa ekki getað snúið þróuninni við, þrátt fyrir ýmsar tilraunir (sjá greinina ,,Því hættu svona margir'').

Stefnumótun hefur verið mikil að vöxtum, en jafnan fremur almenn. Mótuð stjórnlist og taktík fyrir ísl. kommúnista hins vegar lítil og vanhugsuð — mest hráar Komintern-formúlur.

Fyrsta skref marx-lenínista hlýtur því að vera þetta: **Að móta sér nýja stefnuskrá** (það gera fáir), bæði með grunnstefnu og dægurstefnu, sem er til umræðu handa öllum vinstri mönnum og setur fram nothæfa tillögu um hvernig og hvar kommúnistar skuli starfa næstu árin. Þetta verður að fara fram í næsta mánuði.

Í ljósi þessarar stefnumótunar og þess sem sagt hefur verið hér um stöðu vinstri hreyfingar, hljóta marx-lenínistar að geta ákveðið **hvernig** þeir reyna að efla samtök sín. Sjálfstætt starf smásamtaka er mjög seinvirkt og reynslan af því fremur neikvæð. Það getur því aðeins orðið nauðsynlegt neyðarúrræði. Samtök sem halda hópinn, sem starfa **innan** samfylkingar — sem vinnur gegn nraðri þróun til ríkiskapítalisma og berst fyrir auknu lýðræði og bættum kjörum — er annar og betri kostur. Sú samfylking er ekki til nú en gæti orðið til úr a.m.k. fjórum meiðum: Úr breyttu Alþýðubandalagi, úr Bandalagi jafnaðarmanna, úr græningjasamtökum og hreyfingu Kvennaframboðs. Um KF er ekki fjallað hér og ef til vill hefur það sett sjálfu sér stól fyrir dyrnar með því að lýsa yfir að samvinna við önnur samtök (bara við alþingiskosningar?) komi ekki til greina.

Íslenskir kommúnistar hafa **ekki** lagt fram skynsamlega greiningu á stöðu ísl. stjórnmála og ísl. séraðstæðum. Er því hvorki til hugmynd að leið til að stofna ísl. verkalýðsflokk (annað en nokkur slagorð) né heldur hafa vinstri menn efni á þeim sjálfbirgingshætti sem fram kemur í því að gefa skít í öll önnur samtök en sín eigin eða ferskar hugmyndir sem ekki koma frá þeim sjálfum. Þeir hafa heldur ekki efni á samvinnuleysi sín í milli þar sem þó er málefnasamkomulag, því alþýða manna fyrirlítur pólitíska fýlupoka.

Að svo skrifuðu lýkur þessari síðustu grein minni af ótal mörgum í Verkalýðsblaðinu. Lesendum vil ég benda á Dagblaðið (kjallara) næstu mánuði.

**Ari T. Guðmundsson**

| | |
|---|---|
| Lausasala 4 síður: | Kr. 10 |
| Lausasala 8 síður: | Kr. 15 |
| Lausasala 12 síður: | Kr. 20 |
| Áskrift: | Kr. 150 |
| Stuðningsáskrift: | Kr. 200 |
| Áskrift til útlanda: | Kr. 200 |

**Gíró: 12200-9**

# Verkalýðsblaðið

1. tbl. 12. árg. 7. febrúar 1983

# Vinstri hreyfingin og framtíð marx-lenínista

**Mjög er freistandi að reyna að skilgreina stöðu svonefndrar vinstri hreyfingar í landinu í víðustum skilningi hugtaksins. Staðan og þá sérstaklega framtíðin er bæði óljós og full umbrotamerkja. Á því er góð og slæm hlið. Slæm að því leyti að enginn raunverulegur og öflugur sósíalískur valkostur er til og ekki í sjónmáli, en góð að því að í ringulreiðinni liggur efni til endurnýjunar.**

**Um Bandalag jafnaðarmanna er ekkert hægt að segja þegar greinin er rituð. Verður umsögn um það að bíða. Má ef til vill ná henni fram áður en þetta síðasta tbl. VB fer í prentun.**

## A-flokkarnir

Alþýðuflokkurinn hefur aldrei verið og mun ekki verða starfsvettvangur kommúnista. Þar kemur bæði til að flokksstjórn myndi aldrei veita þeim inngöngu og eins er vandséð hvað þangað væri að sækja. Hefðbundið og lítt lýðræðislegt skipulag borgaralegs flokks gerir áhrif venjulegra flokksmanna afar lítil. Meginstefna Alþýðuflokksins er vissulega umbótasinnuð en um leið tekur hún fullt tillit til áframhaldandi arðránsréttar atvinnurekenda. Sú sýn sem við blasir á Norðurlöndum afhjúpar hvert inntak kratismans er:

— Með félagslegu átaki og ríkisumsvifum er hægt að „gjörnýta" möguleika kapítalismans, bæta lífskjör og halda uppi allstöðugum samfélögum í einn til tvo áratugi. En óleysanlegar mótsagnir kapítalismans leiða fyrr en síðar til skipbrots og kreppu hins kratíska samfélags. Glansmyndin fölnar.

Stefna Alþýðuflokksins getur ekki „bjargað" þjóðarskútunni, enda tækifæri hennar til „skandinavískrar" þróunar hér liðin tíð. Og það sem mikilvægara er: — Vegna hægriþróunar Alþýðubandalagsins og frjálslyndra afla í Sjálfstæðisflokknum hefur Alþýðuflokkurinn átt æ erfiðara með að lifa sjálfstæðu lífi. Miklar líkur eru á að hann hverfi eða a.m.k. hluti hans og hluti AB renni saman. Tilraunir hins kjaftfora Jóns Baldvins Hannibalssonar til að glæða flokk sinn lífi munu ekki heppnast þegar til lengdar lætur. Hann er ekki fulltrúi fyrir heiðarlega og nýja stefnumótun krata.

Um Alþýðubandalagið gildir sú lýsing að þar hlaðist upp spenna og óleysanlegar mótsagnir næstu árin.

## Sjálfskaparvíti AB

Stefna AB miðast æ meir við að móta eingöngu skammtímalausnir á innbyggðum vandamálum íslenska auðskipulagsins. Er það gert til þess að fiska atkvæði út á „skynsamlegan" kapítalisma en þess ekki gætt um leið að flokkurinn getur ekki vísað leið út úr núverandi hagkerfi þegar kemur að því að engar skammtímalausnir duga. Flokkurinn er sokkinn ofan í kratíska umbótastefnu — ekki vegna mistaka, heldur vegna **pólitískrar stefnu** meirihluta flokksmanna. Samtímis þessu brýtur flokkurinn oft gegn meginstefnuskrá sinni sem er að sumu leyti marxískur arfur frá KFÍ. Hann grefur sjálfur undan sér og verður marklaus í augum eitthvað skólaðra sósíalista.

Flokkurinn er skipulagður (enn a.m.k.) eins og hver annar borgaralegur þingsalaflokkur. Fámennur flokkskjarni (2—300 manns), óvirkir félagar, alvitur forysta sem skammtar verkefni og stefnu niðurávið, mikil og léleg (!) skriffinnska og sýndarlýðræði (opnir fundir, orðið laust, allir velkomnir... o.s.frv.) eru nokkur atriðisorð í því sambandi.

Flestir forystumanna eða virkra félaga hafa embætti, opinbert eða hjá verkalýðshreyfingunni. Þetta fólk heldur að **þar** eigi fyrst og fremst að berjast, meðan röddum fjölgar sem heimta „grasrótarbaráttu". Andstæðan milli kerfisflokksins og fjöldabaráttuflokksins verður sískarpari. Annað sjálfskaparvíti er skylt þessu. Um leið og óánægja vex og gagnrýni er oftar kæfð en áður, þá stendur flokkurinn óvenju vel saman um stefnu og framkvæmdir útávið. Fara þar tvær ástæður saman. Margir ríghalda í þá bábilju að af því að „AB sé skásti kosturinn", verði að halda flokknum á floti, hvað sem það kostar. Og svo er trúin á „sósíalíska" stjórnlist AB-forystunnar sem felst í því að koma AB-mönnum að í kerfið til að breyta því **innan frá**. Komist einn allaballi í valdastöðu einhvers staðar má fyrirgefa flokknum hvað sem er. Þetta er súrt, en því miður satt.

Þá er rétt að minnast á spennuna sem hleðst upp vegna valdastöðu AB víða í opinberri stjórnsýslu og í verkalýðshreyfingunni. Þar er afleiðing starfa AB ekki sú að stjórnsýslan opnast, starfsemin verður lýðræðislegri, leitað er meira til fjöldans en áður eða að verkalýðshreyfingin hættir að taka mið af „greiðslugetu" atvinnuveganna. Þvert á móti hefur ógeð fólks á stéttarfélögum sínum og samfélagsstofnunum aukist og vangeta fjöldasamtaka sömuleiðis. Firringin vex. Þessu mætir AB-forystan með því að kenna áhugaleysi fólks um — og bætir svo við: —„Þótt vissulega mætti eitt og annað betur fara hjá flokknum." — Um fræðslu í marxisma og stéttabaráttustefnu er ekki að ræða, nema ef vera skyldi smátilraunir sem eru gerðar að undirlagi einstakra óánægðra félaga.

AB hefur staðið sig ágætlega í sveitastjórnum, í álmálinu og víðar. Það eykur til muna kröfur fólks til flokksins og um leið spennuna — því hann er ófær um afgerandi málafylgju víðar.

## AB verður líklega...

Að öllu óbreyttu mun allt þetta einkenna flokkinn áfram og valda frekari öfugþróun hans. Það gæti líklega leitt til klofnings. Þá gæti stór hluti flokksins myndað stóran vinstri sinnaðan krataflokk með öðrum.

Svo virðist sem virki hluti AB hafi komið sér saman um breytingar á flokknum. Ástæður manna eru mismunandi. Einhverjir sjá skipulagsbreytingar sem leið til að búa til „eitt vinstra afl", sem fylgja myndi núverandi stefnu AB í grundvallaratriðum og fækka keppinautum. Aðrir vona að breytingarnar leiði til þess að marxistar streymi inn í flokkinn og breyti honum til betri vegar.

Ekki er enn búið að móta tillögur skipulagsnefndar AB eða birta þær. Hitt er ljóst að orð AB-forystunnar vekja tortryggni. AB hefur markvisst og meðvitað reynt að kæfa alla hópa til vinstri við sig með þögn eða háði og alls ekki tekið þátt í nauðsynlegum umræðum með þeim eða hlustað á gagnrýni og svarað henni. Ekki dugar þó grunur um að tilboð til smásamtaka um inngöngu sé tilraun til að gleypa og ónýta þau til þess að kommúnistar geti vísað öllu á bug. Umfjöllun bíður þó síðari tíma. Hitt er víst að kommúnistar eiga ekkert erindi í AB nema að lýðræði sé tryggt, lágmarksstefna AB sé framsækin og þeir treysti sér til að útbreiða marxisma innan og utan AB.

## Fylkingin

Fátt nýtt er hægt að segja um Fylkinguna. Andstæður milli hennar og marx-lenínista eru bæði djúpar og eðlilegar. En samstaða er líka um allmörg mál, bæði í dægurmálum og um málefni sósíalisma.

Þróun Fylkingarinnar frá 1968 dæmir hana hart. Henni hefur ekki vaxið fiskur um hrygg í heild þessi ár og aðild hennar að margklofnu sambandi trotskista um heim allan á engan hátt haft aukin áhrif í för með sér. Fámenni hennar og grunnstefna hafa ef til vill komið í veg fyrir að Fylkingunni hafi tekist að móta alhliða íslenska stjórnmálastefnu sem er valkostur við AB — um það skal þó ekkert fullyrt, en bent á að gagnrýnin umfjöllun félaga Fylkingarinnar á árangri hennar hefur ekki sést svo vitað sé. Þá eru vísbendingar um ágreining milli fleiri en tveggja hópa í samtökunum og getur hann leitt til klofnings vegna ofurtryggðar trotskista þar við hina erlendu miðstöð. Hitt er líka mögulegt að Fylkingin gangi í breytt Alþýðubandalag til að vinna byltingarstefnu sinni þar fylgi — svipað og Militanthópurinn í Englandi.

## Baráttusamtökin

Þvergirðingsháttur og trúhópur er það fyrsta sem í hug kemur þegar minnst er á hóp ungs fólks sem stofnaði Baráttusamtök fyrir stofnun kommúnistaflokks (BSK) sl. vor. Á marx-lenínista virkar hann sem skopstæling á upphafsárum hreyfingar þeirra, — á eldlegan vilja sem er límdur við Enver Hoxha og fólk sem er blint í vissu sinni og vegna lesturs fáeinna grunnrita marxismans.

BSK neita umræðum til að grynna á mótsögnum milli þeirra og marx-lenínista og nýta sameiginlega langa reynslu KS, þó svo að fjölmargt í almennri stefnu beggja sé eins. Ekki hafa BSK krufið mat marx-lenínista á eigin vegferð eða krufið stefnuskrár þeirra, heldur heimfært skammir Albana um Kínverja yfir á KS og endursagt langar rollur Envers Hoxha um skaðsemi maóismans — manns sem hóf hann til skýjanna í 15 ár og gerir ekki minnstu tilraun til sjálfsrýni eða útskýringa á oflofinu núna. Þegar við bætist vörn fyrir Münchausen-sögur á borð við 40 ára njósnaferil forsætisráðherra Albaníu fyrir allar helstu leyniþjónustur heims og 100% kjörfylgi flokksins, geta BSK ekki búist við að vera tekin alvarlega. Meginstarf BSK svo sem að endurreisa Rauðsokkahreyfinguna og búa til kjarabaráttuhreyfingu (ofanfrá) fóru út um þúfur og vegna skamms starfstíma og slagorðatryggðar, hefur sértæk stefna lítt séð dagsins ljós. Auðvitað hafa samtökin fallið frá dæmalaust óraunsærri yfirlýsingu um að stofna kommúnistaflokk 6 mánuðum eftir stofnun BSK.

Fátt bendir til annars en þróun BSK geti orðið önnur en hrun — því miður. Því segjum

Framhald á bls. 11

## Rukkunarhornið

Það er við hæfi að eini reglulegi dálkur blaðsins sl. tvö ár, ef leiðarinn er ekki talinn með, kveðji. Enn skulda nefnilega örfáir árgjaldið 1982 og voru síðustu aðvaranir sendar út nú nýverið.

Það er e.t.v. hálffáránlegt að blað sem er að leggja upp laupana hóti því að taka menn af áskrifendaskrá. Í þessu tilfelli er þó ætlunin að allir sem greitt hafa árið 1982 heyri frá okkur síðar í formi bókar eða bæklings svo sem nánar er frá greint annars staðar í blaðinu.

Ennfremur er mögulegt að fjölrit verði send út á nafni blaðsins. Áskriftir verða að sjálfsögðu ekki innheimtar en vera má að gíróseðill verði sendur út með væntanlegri bók þegar þar að kemur.

Bestu kveðjur,
rukkunarstjóri.